Leikrit:

# Vefarinn

með

# tólfkóngaviti.

Útgefendur:

*Svb. Hallgrímsson. H. Johnson.*

Reykjavík 1854.

Prentað í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni.



## Þeir, sem leika, eru:

*Þrándur vefari Þiðrandason.*
*Þrúður, kona hans.*
*Sæunn, dóttir þeirra.*
*Ingibjörg, vinnukona.*
*Bárður, vefarasveinn.*
*Brandur, unnusti Sæunnar.*

---

Einn drengur.
Annar drengur.
Miðnefndin.
Pjetur. Páll.
Ein telpa.
Madama Peturs. Madama Páls.
Ein hjón.
Randalín í Róu (karlmaður í kvennfötum).
Hrólfur. Snjólfur. (Tveir stúdentar).
Einn maður.
Kerling (karlmaður í kvennfötum).
Tómthúsmaður. Jagtarmaður. Stiptamtmannsþjóninn.
Tveir menn úr bæjarstjórninni.

---

# Fyrsti þáttur.

## 1. Atriði.

### Brandur.

Brandur: Æ, jeg þori ekki, jeg má ekki, jeg skammast mín að nefna það, sem mjer er í hug: jeg vild' jeg mætt' eiga þig, heillin mín! það er eins og þessi biðils orð sjeu stíluð upp á mig, því satt að segja stendur hnífurinn í kúnni, æfinlega þegar jeg ætla að fara, að tala við þránd vefara þiðrandason og biðja dóttur hans, sem jeg hef svo lengi verið trúlofaður í laumi. það er nú þriðja biðilsferðin mín að tarna, og hef jeg í hvorttveggja skiptið snúið aptur við svo búið. það yrði ekki heldur meira úr því í þetta sinn, ef mjer þækti ekki sjálfum minnkun að því, og ef jeg þyrði það fyrir ákúrum úr kerlingarsauðnum henni móður minni. Jeg er einhvern veginn svo uppburðarlaus og ragur af náttúrunni, og get ekki að því gjört. Æfinlega þegar jeg ætla að berja að dyrum, finnst mjer eins og kippt sje í höndina á mjer. það er þó skárra! Öllum ferst betur enn Brandi! En það hjálpar ekki, þessi skolli, jeg verð þó að reyna það. Samt held jeg sje bezt að hreifa dálítið upp á sjer áður, því jeg trúi, að þrándi gamla sje nú ekki farið að þykja koma sona til alls. (Hann tekur upp úr brókarvasa sínum rauðleitan snítuklút, og lætur um hálsinn á sjer utan yfir hvunndagsklútinn; síðan brettir hann niður brókarskálmar sínar og breiðir út hornin á klútnum). Nú held jeg, engin skömm sje að sjá Brand; jeg ætla þá að drepa á dyr. En, bittinú, er það ekki eins og jeg segi, tekur ekki skollinn þarna utan um höndina á mjer? Hvað er þetta? Hertu þig, Brandur litli, þú þarft ekki að skammast þín fyrir þig; og það getur aldrei orðið verr, enn nei. (Hann drepur á dyr).

## 2. Atriði.

### Bárður. Brandur.

Bárður: (Heldur á kökubita og er að tiggja). Sælir nú, msr. Brandur! Hvern ætlið þjer að finna?

Brandur: Mig langaði til að mega tala við húsbóndann, ef enginn er hjá honum.

Bárður: Þjer sækið þá vel að, því nú er þó enginn kominn; en hann er að lesa í bók, maðurinn.

Brandur: Jeg skal halda það, að hann er meira fyrir bækur, enn jeg.

Bárður: Já, þó þeir prentuðu Alþingistíðindin með smáa stílnum, þá er jeg viss um, að hann læsi fyr úr sjer öll augu, enn lesa þau ekki út í hörgul.

Brandur: En getur hann komizt til þess, að lesa þvílíka málalengingu?

Bárður: Þjer skuluð vita það, msr. Brandur! að hann húsbóndi minn er til tvískiptanna, því hann er bæði vefari, og jeg hefði nærri því sagt, ofviti.

Brandur: Mjer finnst það nú ekki eiga svo vel saman.

Bárður: Okkur er nú ekki heldur farið að finnast það; því þegar hann tekur á vef, sem sjaldan ber við, flækir hann svo vefinn, að við verðum að rekja allt upp eptir hann aptur; en ef þjer viljið tala við hann, þá getið þjer gengið þarna inn í húsið til hans.

Brandur: Mjer er nú ekki lítið á höndum, Bárður minn! því þjer að segja, þá ætla jeg nú að biðja dóttur hans; það er svo búið að vera nógu lengi í á milli okkar.

Bárður: Já, það veit hamingjan, yður er mikið á höndum. En eitt skal jeg segja yður, msr. Brandur! og megið þjer ekki misvirða það við mig. Ef yður er um hugað að fá hjá honum stúlkuna, þá tjáir yður ekki að tala við hann með hvunndagsorðum, og ekkert annað enn uppskrúfað rósamál; því hann er orðinn einhvern veginn svo fljúgandi í þönkunum.

Brandur: Nei, til þess getur hann þó ekki ætlast af mjer, Bárður! Jeg er svo ekki annað enn rjettur og sljettur lausamaður, í leyfi guðs og konungsins, og því þarf enginn að hugsa, að jeg kunni þau, komplímentin þau arna. Jeg segi blátt áfram, að jeg hafi ást á dóttur hans, og vilji því fá hana fyrir konu.

Bárður: Ekki öðruvísi? Jeg skal þá setja höfuðið á mjer í veð, að þjer fáið hana ekki. Altjend getið þjer þó byrjað tal yðar á einhverju, sem smellur dálítið, t. a. m. svona: af því að, eða, með því að. Þjer verðið að gæta þess, msr. Brandur! að þjer eigið við fluggáfaðan mann, sem vakinn og sofinn les í Lanzþingstíðindunum, svo það er von þó hann verði rjett ofvita. Hann hefur nú um tíma aldrei setið á sárshöfði við okkur heimilisfólkið, fyrir það hvað við sjeum dónaleg og kunnum enga manna siði; og þó þykir honum jeg vestur, enda kallar hann mig aldrei annað enn ruddadóna, svo sem

hann kveður á. Í hinni vikunni ætlaði hann með harðri hendi að neyða húsmóðirina, til að fara að ganga berhöfðaða; en hann komst ekki upp með það fyrir moðreik, því húsmóðirin er ekki fyrir útbrot, en er fastheldin við landssiðinn, enda ljeti hún fyr lífið, enn láta af sjer húfuna. Hann hefur einhver heilaútbrot meiri enn minni, hver skollinn sem það er; þess vegna verðið þjer að hlýða mínum ráðum, ef þjer viljið ekki fá bryggbrot.

Brandur: Jeg hef alls engin útúrdúrabrot, heldur kem undir eins til efnisins.

## 3. Atriði.

### Bárður (einsamall).

Mestur vandinn fyrir biðilinn er að komast á lagið; viti menn jeg var biðill einu sinni, en í heilan hálfan mánuð gat jeg aldrei komið mjer á lagið með það, hvernig jeg ætti að segja fyrst. Jeg vissi að sönnu, að biðillinn á æfinlega að byrja á þessu: af því að, eða, með því að; en það var ólagið mitt, að mjer hugsaðist aldrei neitt til að hnýta aptan við þetta blessað: með því að. Jeg nennti þá ekki lengur að brjóta heilann yfir því, fór og keypti mjer fyrir 8 sk. rifrildi af „Bónorðsförinni“, sem þá var nýkomin út, las hana fram og aptur, en fann þar ekkert nógu blítt og biðilslegt. Jeg keypti þá „Trúlofunardaginn“ fyrir ríxort í gyltu bandi, og úr báðum kverunum til samans var jeg búinn að læra upp á mínar tíu fingur rjett laglega grein; en þegar átti að gilda sjálfan bónorðsdaginn, strandaði jeg í henni miðri; mjer sortnaði fyrir augum, og þegar jeg fjekk sjónina aptur, var stúlkan gengin burt, því hún hafði ekki nennt að bíða allan þann tíma, sem jeg stóð þar sjónlaus og mállaus. Jeg hef bæði fyrir og eptir kunnað greinina reiprennandi, þó hún stæði í mjer þegar mest lá á. Hún er svona: „Fyrst bið jeg guð að gefa yður góðar nætur, góða mín! og svo læt jeg yður vita, að jeg, Bárður Brotevuson úr Bjóluhverfinu, er hjer kominn með fullu viti og frjálsum vilja, til að tjá yður, að jeg er ekki fremur úr staur eða steini, enn aðrir menn; og af því allar skepnur í heiminum láta sigrast meir eða minna af ástinni, og einnig líka mállaus kvikindin, þá er jeg nú líka til yðar kominn í hreinu og beinu biðils erindi, og grátbæni yður að verða mjer nú til annarar handar, eins og jeg aptur á móti vil og skal verða yður innan handar. Æ, elskan mín góða, segið nú já!“ Jeg skyldi kenna þessa grein hverjum sem vildi fyrir ríkisort og 8 sk.; en fyrir minna gjöri jeg það ekki, því greinin er gott ríkisdals virði. Jeg get vel ímyndað mjer, að hver sem ekki strandar í henni, geti rjett fengið

hverja stúlku sem hann vill. En þarna kemur þá húsbóndinn; jeg held mjer sje bezt að forða mjer.

## 4. Atriði.

### Þrándur. Brandur.

Þrándur: Jeg þakka yður ástsamlega fyrir yðar góða tilboð, msr. Brandur! Þjer eruð laglegur og vænn maður, svo jeg er viss um, að dóttir mín kæmizt þar í góðs manns höndur. En allra helzt vildi jeg þó fá þann fyrir tengdason, sem hefur lesið og lagt sig eptir landsins gagni og nauðsynjum.

Brandur: Blessaðir verið þjer, sgnr. Þrándur, kona manns og börn lifa þó ekki á því.

Þrándur: Það var meir enn jeg vissi. Haldið þjer þá, að jeg ætli mjer að velta svona út af í vefstólnum? Þjer skuluð nú bezt sjá það svo sem eptir hálft ár. Mjer þykir líklegt, að þegar jeg er nú búinn að lesa út öll Tíðindin frá alþinginu, þá neyði menn upp á mig kosningu til þings og bæjarfulltrúaembættinu með. Fèlagsritin nýustu kann jeg orðið utanbókar; en þau hrökkva nú ekki mikið. Fái þeir fjúk, svo margir menn, að hafa ekki þá bók lengri. Þjer þekkið þó líklega Fèlagsritin?

Brandur: Og ekki þekki jeg þau.

Þrándur: Jeg skal ljá yður ræflana af þeim, því jeg er rjett búinn að lesa þau upp til agna. Úr þeirri bók hef jeg allt mitt vit á þjóðmálefnum, nokkuð lika úr Þjóðólfi og Pilti og Stúlku.

Brandur: Nú, er ekki Piltur og Stúlka saga um ástarfar?

Þrándur: Hvað um gildir. Jeg vildi að landið væri fullt af slíkum sögum. Jeg var á ónefndum stað hjerna um daginn, og þá hvíslaði lesinn maður að mjer: hver, sem ber skyn á þessa bók, getur setið í vandasamasta embætti, já, staðið fyrir öllu landinu.

Brandur: Það getur verið; en eigi jeg að fara að sökkva mjer niður í bókalestur, þá tel jeg ekki upp á atvinnu mína.

Þrándur: Það er eins og jeg sagði yður áðan, msr. Brandur! jeg ætla mjer að hætta þessum vefnaði; því er verr og miður, að jeg hef ekki fyrir löngu síðan tekið að mjer þjóðmál í staðinn fyrir þessi vaðmál; því margir hafa sagt við mig: sgnr. Þrándur vefari, þjer ættuð að vera orðinn annað! Já, það er ekki lengra á að minnast, enn síðan í gær, að einn af bæjarfulltrúunum sagði í sjálfri bæjarþingsstofunni: Þrándur vefari er betur fallinn til annars, enn að sitja í vefstólnum; hann veit það margt, maðurinn sá, sem við sjálfir bæjarfulltrúarnir vitum hvorki upp eða niður í; og af þessu getið þjer sjálfur sjeð, að jeg muni trauð-

lega deya eins og vefari. Þess vegna vildi jeg helzt eignast þann fyrir tengdason, sem leggur stund á þjóðmálefni, því jeg býst helzt við, að við getum báðir tveir náð sæti, bæði á alþingissalnum og í bæjarþingstofunni. Ef þjer viljið nú byrja á Fèlagsritunum nýu, þá skal jeg hlýða yður þau yfir á hverju laugardagskveldi, til að vita hvað yður gengur.

Brandur: Nei, það get jeg ekki lagt upp; jeg er of gamall til að fara nú fyrst að ganga í skóla.

Þrándur: Svo eruð þjer þá ekki heldur fallinn til að vera tengdasonur minn. Guðsfriði! (Hann gengur burt).

## 5. Atriði.

### Brandur. Þrúður. (Síðan koma) tveir drengir.

Þrúður: Það eru vandræði með manninn minn, hann tollir aldrei við heimilið, og skiptir sjer ekki af neinu. Jeg vildi gefa mikið til þess að vita, hvert hann leggur leiðir sínar. En þjer eruð þá hjerna einsamall, msr. Brandur! Viljið þjer ekki koma inn?

Brandur: Ekkí, þakk' yður fyrir, húsmóðir góð, jeg held jeg sje of lítilfjörlegur til þess.

Þrúður: Sei, jeg vil ekki heyra þetta.

Brandur: Mjer þykir maðurinn yðar vera farinn að hugsa hátt í heiminum, og ekki minna enn það, að verða alþingismaður og bæjarfulltrúi. Hann lítur ekki við okkur handiðnamönnunum, mjer og mínum líkum; hann þykist vera vitrari, enn fógetinn sjálfur.

Þrúður: Hvað er um hann að tala með allt rækarls tólfkóngavitið; jeg hefði samt hugsað, að hann yrði fyr armingi enn alþingismaður, og kæmist fyr á húsgang enn í bæjarþingsstofuna. Þjer skuluð ekki heldur skipta yður neitt af honum, Brandur minn góður, og sleppið ekki tryggð við hana dóttur mína.

Brandur: Þrándur sver það þó, að hann skuli engum manni gefa hana, nema einhverjum þessum tólfkóngavitringi.

Þrúður: Jeg skal fyr taka fyrir kverkar henni, enn að hún eignist nokkurn af þessum þjóðmála skúmum og skraffinnum. Það þókti lítill sómi í fyrri daga að vera að þessu þvaðri fram og aptur um það, sem manni kemur ekkert við.

Brandur: Jeg skal ekki heldur fylla þann flokkinn; jeg ætla að bera mig að lifa af því, að bora og spengja leirinn minn. Á því lifði faðir minn sæll, og eins vona jeg að jeg geti. En þarna kemur drengur, sem líklega vill finna yður.

(Drengur kemur).

Þrúður: Hvað viltu, piltur minn?

Drengur: Mig langaði til að tala við hann Þránd vefara.

Þrúður: Hann er ekki heima; get jeg ekki afgreitt þig?

Drengur: Hún húsmóðir mín sendi mig til að vita, hvort vaðmálsstúfurinn væri ekki enn þá búinn, sem hann tók til að vefa fyrir 3 vikum; það er búið að láta ótal sinnum vitja um hann, en við erum einlægt dregin á honum jafnt og þjett.

Þrúður: Beiddu hana húsmóður þína, barnið gott, að misvirða það ekki við okkur; stúfurinn skal verða búinn um næstu helgi. (Drengurinn fer).

Annar drengur (kemur inn): Jeg átti nú að vita í seinasta sinni, hvort svuntudúkurinn væri ekki búinn enn. Það hefði mátt vera búið að sníða hann upp og slíta honum til agna, síðan hann var festur upp í vefstólinn. Hún húsmóðir mín lofaði því líka, að þið skylduð ekki í næsta sinni fá vefnað frá sjer.

Þrúður: Heyrðu, drengurinn minn! Ef þið viljið koma verkefni fyrir eptirleiðis, þá skal jeg sjá um það. Maðurinn minn er stundum eins og hann sje ekki með öllum mjalla, svo engum tjáir að tala við hann. Þú mátt trúa því, sem jeg segi þjer: dúkurinn skal verða búinn annað kveld. Vertu sæll! (Sá drengur fer).

Þrúður: Nú getið þjer heyrt, Brandur minn, hvernig til gengur hjerna á heimilinu. Við verðum af hverju verkefninu eptir annað, vegna hirðuleysis mannsins míns.

Brandur: Er hann þá aldrei heima?

Þrúður: Það er sjaldan; og þegar hann er heima, þá er hann ekki að öðru enn þessum bannsettu bollaleggingum og loptbyggingum, og sinnir ekki heimilinu. Jeg heimta þó ekki annað af honum, enn að hann hafi eptirlit með vefnum, því taki hann á honum sjálfur, flækir hann allt, svo það verður að rekja upp aptur. Hann Bárður kemur nú þarna, og getur bezt borið um það.

## 6. Atriði.

### Bárður. Þrúður. Brandur.

Bárður: Það er kominn maðurinn, húsmóðir góð! sem á að taka á móti peningunum fyrir rjúpurokkinn, sem við fengum í gær.

Þrúður: Hvaðan á jeg að taka þá peninga? Hann má til að bíða, þangað til maðurinn minn kemur heim. En getur þú ekki frætt mig á því, hvert hann venur komur sínar á daginn?

Bárður: Ef húsmóðirin gæti þagað, þá skyldi jeg segja henni það.

Þrúður: Jeg lofa þjer því upp á mína æru og trú, Bárður! að jeg skal ekki hafa það eptir þjer.

Bárður: það er haldinn fundur á hverjum degi, sem þeir kalla Miðnefndina; þar sitja saman 12 menn og ræða um landsins gagn og nauðsynjar.

þrúður: Hvar er sú samkoma haldin?

Bárður: þjer megið ekki kalla það samkomu, húsmóðir góð! því það er fundur eða þing.

þrúður: Hvar er þá það fundarþing haldið.

Bárður: það er haldið ýmist, nú hjá þessum, nú hjá hinum; í dag — en hafið það ekki eptir mjer — á að halda það hjerna.

þrúður: Hæ, hæ! Nú skil jeg, hvers vegna hann vill, að jeg fari að heiman í dag og heimsæki kerlinguna hana Randalín í Róu.

Bárður: það er hægast fyrir húsmóðirina að fara að heiman; hún getur snúið aptur innan stundar, og komið svo að þeim óvörum. Í gær var fundur þessi haldinn hjá Felix formanni. Jeg sá þá alla sitja þar kringum borð, og húsbóndann við annan borðsendann.

þrúður: þekktir þú nokkra af þeim?

Bárður: Jeg þekkti þá alla saman. það var húsbóndinn og Felix eru 2, þorkell þófari 3, Marteinn malari 4, Filpus fjallkóngur 5, Mósteinn 6, Lýður lausamaður 7, Jón Tóusprengur 8, Gunnar Gutlari 9, Teitur stúdent 10, Jörundur hattari 11 og Magnús Sálarháski 12.

Brandur: þetta eru þá allt dáindis efnilegir piltar til að ræða um þjóðmálefni; heyrðir þú ekki um hvað þeir voru að tala?

Bárður: Og víst heyrði jeg það, en jeg skildi lítið af því; en svo mikið heyrði jeg samt, að þeir hrundu þingmönnum og bæjarfulltrúum, viku frá hreppstjórum, sýslumönnum, amtmönnum og ráðherrum, og settu aðra í þeirra stað. Stundum töluðu þeir um æðarfugladráp, stundum um friðun selsins, stundum um ónýta ráðgjafa, sem konungur hefði, stundum um verzlunarfrelsi og sveitastjórn; þeir ýmist blöðuðu í bókum eða blíndu á landabrjef. Teitur stúdent hjelt á tannstöngli, og því ímynda jeg mjer, að hann megi til að vera skrifari í Miðnefndinni.

Brandur! Hæ, hæ, hæ! Svei mjer, ef jeg skal ekki segja næst þegar jeg finn hann, sæll og blessaður, Sekri minn!

Bárður: En fyrir alla muni hafið þetta ekki eptir mjer; það má sjálfur skollinn eiga þá menn yfir höfði sjer, sem geta sett af sýslumenn og amtmenn og jafnvel ráðgjafa kóngsins.

þrúður: Heyrðir þú nokkuð til mannsins míns?

Bárður: það var ekki mikið. Hann situr optastnær í djúpsettum þankabrot-

um, og er að taka í nefið, meðan hinir eru að tala, en svo sker hann úr málunum á eptir.

Þrúður: Þekkti hann þig ekki?

Bárður: Hann sá mig ekki, því jeg horfði á þá í gegnum skráargatið; og þó hann hefði sjeð mig, þá hefði hann varla látið svo lítið að þekkja mig, því svipurinn var reisuglegur rjett eins og á þingmanni frammi fyrir konungsfulltrúa, er hann talar um rjettindi landsins. Flestir, sem sækja slíka fundi, fá eins og glýu fyrir augun, svo þeir sjá jafnvel ekki beztu vini sína.

Þrúður: Guð hjálpi mjer! Hann stofnar oss víst í vandræði, sá maður, svo framarlega sem stiptamtmaðurinn og bæjarfógetinn frjetta, að hann er að þessu bruggi og bollaleggingum. Þeir vilja svo, góðu herrar, ekki láta breyta um tilhögun á því sem verið hefur í landinu, meir enn þarf. Jeg spái því líka, að Þrándur verði sektaður eða settur í Svartholið fyrir alla frammistöðuna.

Bárður: Það held jeg geti komið fyrir, alltjend það að minnsta kosti, að hann fái að sitja upp á vatn og brauð.

Brandur: Sjer er hver vitleysan! Þessir piltar eru ekki til annars enn að hlæja að þeim. Hvaða vit hefur vefari, þófari, malari á stjórnarmálum? Þeir gjöra ekki annað enn hafa þá að háði og spotti, höfðingjarnir.

Þrúður: Jeg ætla nú að vita, hvort jeg get ekki komið flatt upp á þá. Við skulum þá fara hjeðan stundarkorn.

---

# Annar Þáttur.

## 1. Atriði.

### Þrándur. Bárður. Síðan Miðnefndin.

Þrándur: Hafðu nú allt á reiðum höndum, Bárður! staupin og vindlana í hvers eins sæti, því þeir koma nú innan stundar. (Bárður raðar staupum og vindlum á borðið. Síðan koma hinir hvor eptir annan, setjast kringum borðið, og Þrándur sjálfur við borðsendann).

Þrándur: Verið nú velkomnir, vinir mínir! Hvar var það sem við hættum seinast?

Teitur stúdent: Við vorum að tala um varnarvirki bæjarins.

Þrándur: Satt var orðið, nú man jeg það. Það ætti allt að komast í kring á

næsta alþingi; jeg vildi að jeg mætti sitja þar á einum fundi. Jeg skyldi hvísla að þeim, sem sæti við hliðina á mjer, því sem hann skyldi þakka mjer fyrir. Þeir sjá ekki, góðu menn, hvað bænum hagar. Hvenær hefur maður nokkurn tíma heyrt getið um höfuðstað í nokkru landi án varnarvirkis, eða að minnsta kosti án fallbyssu. Það kveður svo ramt að, að Þórshöfn á Færeyjum hefur bæði vígi og varðmenn. En að láta höfuðstað landsins vera svona öldungis varnarlausan núna, þegar Tyrkinn er farinn að stríða, það sýnir bezt stjórnina, því jeg lái henni það allt eins mikið og bóndanum, sem skilur eptir skemmu sína galopna um hálǫstir. Nei, þeir voru vitrari, forfeður okkar; þeir ötluðust til, að höfuðstaður landsins væri byggður austur á Þingvöllum, þar sem náttúran sjálf frambýður sig til varnar. Eða hvar hafið þjer kringum nokkra borg slíkan múrvegg, sem í Almannagjá og Hrafnagjá, og þarna er borgin strax umgirt á tvær höndur; nú, að vestanverðu er Vatnið, sem kvað vera botnlaust, en þó fullt af silungi, og að norðanverðu eru einlæg fjöll og fyrnindi, sem fuglinn fljúgandi kemst ekki yfir.

Gunnar Gutlari: Þetta segir þú hverju orði sannara, og það er stakt hirðuleysi af stjórninni, þegar nýbúið er nú að gefa út Vestmanneyjaránið, til að minna hana á grimdaræði Tyrkjans, að hún skuli þó ekki hafa nokkurn viðurbúnað móti honum, því auðvitað er að hingað vendir hann, úr því hann er farinn að stríða á annað borð; hann fjekk ekki svo lítið af fólki og fjenaði í Vestmanneyjum.

Mósteinn: Því er jeg öldungis mótfallinn, að forfeður vorir hafi lýst nokkrum hyggindum í því, að vilja reisa höfuðstað landsins austur á Þingvöllum, þar sem ekkert mótak er, og engin mógröf verður tekin, og varla gröf handa dauðum manni, því allt stendur á hrauni. Nei, það álít jeg rjett og heppni að höfuðstaður landsins var reistur hjerna, þar sem mýrarnar og mótakið er svo yfirfljótanlegt. Hitt er hægt, að hafa vörn fyrir bænum, því jeg kalla komið gott undirlag, þar sem er bæði Jörundarvígi og púðurhúsið; og svo væri hægt að breyta vindmylnunum í smákastala, til að skjóta þaðan á Tyrkjann, ef hann kemur inn á höfnina. Jeg fyrir mitt leyti prótestera móti því í kröptugasta máta, að höfuðstaður landsins sje hreifður hjeðan, þar sem guð og konungurinn hafa sett hann, og sjeð honum fyrir nægu mótaki.

Marteinn malari: Jeg prótestera þá aptur af öllum kröptum á móti því, að vindmylnurnar sjeu hafðar til nokkurs hlutar annars, enn mala í þeim, því það

sjer hver lifandi maður, að eigi að fylla þær með fallbyssur og fólk, þá verður ekki malað; og hvað flýtur af því? Fólkið deyr í hungri; og jeg fyrir mitt leyti kýs helmingi heldur, að Tyrkinn höggvi af mjer höfuðið í einu höggi, enn verða hungurmorða af mjelleysi.

Teitur stúdent: Þarna sjer maður föðurlandsástina. Þú vilt ekki landsins vegna missa af mölunarlaununum svo sem mánaðartíma, meðan verið er að skjóta Tyrkjann í kaf; en jeg hef ætíinlega álitið mylnurnar og klukknaportið svo sem líklegasta vísir hjá oss til varnarvirkja fyrir land og lýð.

Lýður lausamaður: Jeg held það þurfi varla að kvíða því, að Tyrkinn komi hingað til Íslands, eins og hann gjörði í fyrndinni. Jeg skal ekki trúa því, að kónguriun hleypi honum í gegnum Eyrarsund, allra sízt svo, að hann ekki spyrji hann, hvort hann ætli að fara; og hafi kóngur grun á því, að hann ætli hingað til landsins, þá sendir hann á augabragði herskip á eptir honum, 2 eða 3, og svo eru hjer optast fyrir 1 og 2 frönsk herskip, og það sýnist mjer fullkomin vörn fyrir svona lítið land.

Teitur stúdent: Leið Tyrkjans liggur ekki gegnum Eyrarsund, ef mig minnir rjett, svo kónguriun getur ekki, hvað feginn sem hann vildi, stefnt stiga fyrir honum.

Lýður lausamaður: Það skal mjer þykja furða; jeg heyri þó varla nokkurn tíma þess getið, að hingað komi svo skip, að það ekki fari gegnum Eyrarsund, og meir að segja rjett fram hjá Kórónuborg, þar sem kónguriun á sjálfur heima, og liggur allt af í gluggunum. Þjer eruð víst farinn að riðga í landaskipunarfræðinni, Teitur sæll?

Teitur stúdent: Það getur verið, að jeg hafi áður vitað í henni lítið, og viti enn; en sá er munurinn, að þjer hafið aldrei vitað neitt í henni áður, og vitið því síður nú, Lýður góður! Spyrjið samt Þránd að þessu. Heyrið þjer, Þrándur vefari, segi jeg ekki öldungis satt um Eyrarsund?

Þrándur: Jeg skal á augabragði skera úr málunum. Bárður! ljáðu okkur landaskipunarfræðina og landabrjefið með yfir Kaupinhafn. Þarna hafið þið þá bókina og landabrjefið, þó það sje farið að slitna hjá mjer. En það er eins gott fyrir það. Jeg veit hvar Eyrarsund er, en jeg ætla að láta landabrjefið færa ykkur heim sanninn. Sko, hjerna er nú Kaupinhafn uppmáluð!

Lýður: Það er bezt að stúdentinn bendi á Eyrarsund.

Teitur stúdent: Og svo hef jeg höndina lausa, maður, að jeg get gjört það. (Í því hann bendir á sundið, veltir

hann um fullu brennivínsstaupi, svo landabrjefið vöknar).

Þrándur: Það er ósjór í Eyrarsundi, piltar, og gefur allmikið á! (þeir skellihlæja allir).

Þrándur: Heyrið nú, piltar! Við erum komnir of langt frá efninu, og lengst suður í heim. Við megum ekki gleyma landsins gagni og nauðsynjum. Það er nóg um að hugsa bæinn þann arna, eins og hann er nú opinn og öndverður, ef Tyrkinn kemur; því það eru hin mestu tíðindi fyrir þetta land, að hann er nú farinn að stríða aptur, sem jeg hef ekki heyrt um getið, að hann hafi gjört síðan hann rændi Vestmanneyjar. Jeg hef einatt verið að hugsa um, hvernig menn ættu að búast á móti honum. Það væri þó umhugsunarefni fyrir bæjarfulltrúana og þingmennina.

Gunnar Gutlari: Nefndu ekki fulltrúa bæjarins, eða þessa góðu þingmenn; því ef við eigum að bíða eptir því, að þeir vinni land og lýð nokkurn þarfa, þá megum við bíða lengi. Það er bezti kosturinn við þá, að þeir taka fje og frama fyrir ekki par.

Þrándur: Jeg álít þó, vinir mínir, að það sje ekki um seinan að hugsa fyrir einhverri vörn bænum til handa, ef Stórtyrkinn kemur, og ættum við að gjöra um það uppástungu til alþingis og bæjarstjórnarinnar.

Magnús Sálarháski: Jeg fyrir mitt leyti álít engan sálarháska í því, þó Tyrkinn komi hingað, og að hægt sje að reka hann á flótta, því jeg hef dæmin fyrir mjer í því. Þegar hann kom hingað í fornöld og sigldi flotanum inn eptir flóunum, vildi svo heppilega til, að búið var að stórhreykja mónum á öllum Innnesjum. Þegar þá Tyrkinn fór að kíkja á land upp, sá hann móhraukana á hverju holti, og hjelt að það væru riddara fylkingar landsmanna, er stæðu búnar til orustu. Tyrkinn tók þegar saman öll segl, sneri skipunum til hafs og þakkaði sínum sæla, að hann sá liðsafnaðinn á landi uppi nógu snemma.

Gunnar Gutlari: Þarna heyrið þið vitmanninn samt, og því er það nú mitt ráð, að við semjum bænarskrá til allra landsins yfirvalda, að þau skipi svo fyrir hvort í sínu umdæmi, að farið sje að færa upp móinn næsta vor, áður enn klaki fer úr jörðu, síðan sje honum stórhreykt, þó hann sje hálfblautur, og loksins sje hann ekki reiddur heim fyr enn eptir rjettir, þegar útsjeð er um að Tyrkinn ekki kemur.

Mósteinn: Eptir rjettir afsegi jeg að reiða heim einn köggul af mó.

Teitur: Allt verður að leggja í sölurnar fyrir föðurlandið.

Þrándur: Það er viturlega talað. En hvor brýzt hjer inn á okkur? Kemur hún ekki þarna, konan mín?

## 2. Atriði.

### Þrúður. Miðnefndin.

Þrúður: Þið eruð þá hjerna, landeyðurnar allar saman! Ykkur væri nær að vinna einhvern þarfann, eða að minnsta kosti líta eptir á heimilum ykkar; við verðum af hverju verkefninu eptir annað, vegna hirðuleysis ykkar.

Þrándur: Þegiðu, kona! þú verður madama, þegar minnst vonum varir; heldurðu, að jeg gjöri það að gamni mínu, að skipta mjer ekki af heimilinu. Ó, ekkí, jeg hef tífalt meir að gjöra, enn þú og allt fólkið á bænum; svo vinnið þið ekki heldur nema með höndunum, en jeg með sálunni.

Þrúður: Þið látið rjett eins og þið sjeuð brjálaðir, bollaleggið og byggið í lausu lopti, og brjótið heilann yfir bannsettri vitleysu; þið haldið það sje vit í því, en það er ekki meira vert enn það, sem jeg geng á.

Jón Tóusprengur: Ef konan mín ljeti sjer slík orð um munn fara, þá skyldi hún ekki gjöra það optar enn einu sinni.

Þrándur: Heyrðu, Jón! Sá sem vill vera föðurlandsvinur, má ekki taka hart á slíku. Fyrir 2 eða 3 árum síðan, þá hefði jeg tekið í lurginn á konunni minni fyrir slík orð, en síðan jeg fór að lesa bækur um landsins gagn og nauðsynjar, hef jeg lært að leiða þetta hjá mjer. „Sá sem ekki getur setið á sjálfum sjer, getur ekk stjórnað öðrum“, segir ameriskur stjórnfræðingur, einhver mesti vitmaður; hann hefur ritað bók, sem mig minnir að titillinn sje á: „Maukastella málefnanna“. Það er rjettur stjórnarspegill fyrir alla embættismenn; því sá sem ekki þolir að heyra fáein illyrði úr heimskri og stórlyndri konu, hvað ætli hann geti verið embættismaður? Kaldlyndi er ágæt dygð, og að kunna að þumbast, kemur sjer vel fyrir yfirvöldin. Þess vegna er það álit mitt, að sá ætti enginn að kjósast fyrir alþingismann eða bæjarfulltrúa, sem ekki hefur sýnt ljósan vott um þetta kaldlyndi, er þumbar alla hluti fram af sjer, já sýnt það, að hann getur þegjandi tekið bæði við höggum og skömmum. Jeg er bráðlyndur af náttúrunni; en jeg reyni til að laga lund mína með lestri. Jeg hef lesið í formála bókar einnar, sem heitir Þjóðmálaskjóða, að þegar einhver reiðist, þá á hann að telja til 20, meðan reiðin er að renna honum.

Jón: Það stillti mig ekki, þó jeg svo teldi til hundraðs.

Þrándur: Svo getið þjer ekki heldur verið nema einn af hinum lægri embætt-

ismönnum. Bárður! settu ölkollu fyrir konuna mína þarna á litla borðið.

Þrúður: Vitlaus ertu núna! Heldurðu, að jeg sje kominn hingað, til að fá mjer að drekka?

Þrándur: 1. 2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9. 10. 11. 12. 13. Hana, nú er mjer runnin reiðin! Heyrðu, heillin mín! Þú mátt ekki vera svona stórorð við manninn þinn, það er svo skelfing dónalegt.

Þrúður: Er það þá höfðinglegra að fara á húsgang og betla? Hefur ekki hver kona fulla orsök til að vera stórorð, þegar maður hennar er slík landeyða, og skiptir sjer hvorki af börnum nje búi, þó allt svelti.

Þrándur: Bárður! gefðu konunni eina kollu af öli, til að kæla í henni hugsýkina.

Þrúður: Bárður! gefðu honum einn utan undir fyrir mig, karlskrattanum.

Bárður: Þjer verðið sjálfar að hafa fyrir því; jeg vil hafa mig undan þeginn slíkum störfum.

Þrúður: Þá þori jeg að gjöra það. (Hún rekur honum löðrung).

Þrándur: 1. 2. 3. 4. (til 20) (Hann sýnir sig líklegan til að berja hana aptur, en fer og telur af nýju til 20). Væri jeg ekki allur í landsins gagni og nauðsynjum, þá hefði jeg nú orðið þunghentur á þjer.

Jón Tóusprengur: Ef þú ekki stillir þig, kona, skaltu eiga mig á fæti. Burt með þig! úr húsinu með þig! (Þrúður sendir þeim tóninn inn).

## 3. Atriði.

### Miðnefndin. Bárður.

Jón Tóusprengur: Jeg skal kenna henni að haga sjer skár heima fyrir í öðru sinni. Og það segi jeg ykkur satt, ef það er eitt af landsins gagni og nauðsynjum, að láta konuna draga sig á hárinu, þá leiði jeg minn hest frá þeim.

Þrándur: „Sá sem ekki getur setið á sjálfum sjer, getur ekki stjórnað öðrum“. Jeg játa, að hægra er að kenna heilræði það, enn halda. Það var sjálfsagt hin mesta minnkun, sem konan mín gjörði mjer; mjer liggur við að hlaupa fram á eptir henni og berja hana; en: 1 2 3 4 5 6 7 8 9 10 11 12 13 14 15 16 17 18 19 20. Nú er það búið. Við skulum þá sleppa þessu.

Filpus fjallkóngur: Það er of mikið konuríki hjer í landi.

Jón: Það er þó satt; jeg hef opt hugsað um að koma fram með uppástungu um það efni. En það er ekkert gaman að eiga þær upp á móti sjer. Annars er uppástungan allgóð.

Þrándur: Hvernig er sú uppástunga?

Jón: Það eru ekki nema fáein atriði; fyrsta máta: ætti hjúskaparsáttmálinn ekki

að semjast fyrir alla æfl manns, heldur fyrir fáein ár, svo, ef manninum líkaði ekki við konu sína, þá gæti hann samið við aðra, en væri þó skyldur að gæta sömu reglu og gildir um jarðnæði, að segja henni upp fyrir nóttina helgu, svo hún geti farið á reglulegum skildaga; líkaði manninum þar á móti við konuna, mætti lengja hjúskaparsáttmálann. Jeg er viss um, ef slík lög kæmust á, þyrfti sízt að kvíða konuríki í landinu; þær mundu brjóta sig í mola fyrir mennina, til þess að hjúskaparsáttmálinn yrði lengdur. Getið þið annars fundið nokkuð að þessu atriði, piltar góðir? Filpus, þú brosir einhvern veginn svo háðslega; lofaðu okkur þá að heyra, hvað þú hefur á móti því.

Filpus: Gæti það þá ekki líka stundum komið fyrir, að konan sæi sjer hag í að skilja við manninn, þegar hann annaðhvort væri vondur við hana, eða væri sá letingi, að hann nennti ekki að vinna fyrir henni og börnunum, og engu nema að jeta og drekka. Líka gæti svo farið, að henni litist betur á annan mann, og hún yrði fyrir það manninum svo erfið, að hann neyddist til að sleppa henni, þó honum væri ekki um það. Það er álit mitt, að af þessu gætu hlotizt enn meiri vandræði. Það eru þó ráð til að sigra konuna. Ef allir giptir menn gjörðu eins og þjer, sgnr. Þrándur, og tækju upp á því að telja til 20, þegar þeim væri rekinn löðrungur, þá er jeg viss um, að margar konur bötnuðu stórum. Jeg álít nú samt það ráðið allra bezt, þegar konan er baldin, að maðurinn hóti henni því, að sofa ekki hjá henni, og láta ekki að henni, fyr enn hún lætur undan.

Jón Tóusprengur: Það þyldi jeg vest af öllu. Margur maður mundi líka una því allt eins illa og konan sjálf.

Filpus: Svo getur þá maðurinn hallað sjer að annari.

Jón: Ja, þá getur líka konan eins hallað sjer að öðrum.

Filpus: Lofaðu okkur nú, Jón, að heyra hin atriðin.

Jón: Þig langar líklega til að hæðast að þessu betur; það eru þó, held jeg, fæstir hlutir svo, að ekki megi eitthvað að þeim finna.

Þrándur: Við skulum nú ræða um eitthvað annað. Ef einhver heyrði til okkar, þá mætti hann hugsa, að við sætum hjer á sáttafundi, og værum að tala niður á milli hjóna. Jeg var að hugsa um það í nótt milli dúranna, hvort stjórninni hjer í landi yrði ekki komið svo fyrir, að vissar mæður hættu því hjeðan af, að bera og barnfæða til brauða og embætta í landinu. Eða er það ekki tíðast svo, að prestskonan verður ljettari að prestsefni, og kaupmannsmadaman að búðarsveini?

Og ætli það fari ekki líka svo, að alþingismennirnir ungi út tómum alþingismannaefnum? Mjer finnst að embættin ættu að koma jafnt niður á öllum, og þeir ættu eins að komast að þeim, sem væru af lágum stigum eins og hinir, sem væru af hinum heldri. Þannig ætti t. a. m. í eitt skiptið að velja, jeg vil tiltaka bæjarfulltrúana, af kaupmannsstjettinni, í annað sinn af tómthúsmönnunum og í þriðja sinn af okkur handiðnamönnunum. Því þegar, til dæmis að taka, skóarinn yrði bæjarfulltrúi, þá mundi hann lita á hagnað skósmiðanna, sniddarinn á hagnað sniddaranna, vefarinn á hagnað vefaranna, og svona koll af kolli; og enginn ætti að vera bæjarfulltrúi nema í mánuð, svo að allir gætu komizt að, og enginn tæki sæluna frá öðrum. Ef þessu lagi yrði komið á stjórnina, þá skyldum við bezt sjá, hvort bærinn ekki færi að blómgast jafnt og þjett, og þá mætti líka fyrst segja, að við værum frjálsir menn.

Jörundur Hattari: Mikill vitmaður eruð þjer, sgnr. Þrándur, og þjer talið eins og Salomon konungur!

Filpus fjallkóngur: Uppástungan er að vísu góð; enn . . .

Jón Tóusprengur: Það er nú ekki opt að þú ungar út þessu góða enni; jeg gæti vel trúað því, þó þú værir kominn undir í fjósbásnum á Enni.

Þrándur: Lofaðu honum að segja álit sitt! Eða hvað ætlaðir þú að segja? Hvað meintir þú með þessu enni?

Filpus: Mjer datt í hug, hvort það kynni ekki stundum að verða erfitt að fá góðan bæjarfulltrúa svona úr hverjum flokki. Jeg veit, að sgnr. Þrándur er ágætur til þess, því hann er svo lesinn; en þegar hann fellur frá, hvar fáum við þá vefara, sem nýtur er til bæjarstjórnar? Því komist einu sinni ólag á bæinn, þá er ekki eins hægt að greiða úr því, eins og að greiða úr vef, sem ólag er komið á; það er sitt hvað vaðmál eða þjóðmál.

Jón: Vertu ekki að vitleysunni þeirri arna; það má finna marga menn duglega, þó handiðnamenn sjeu.

Þrándur: Heyrðu, Filpus, þú ert enn þá ungur, og því er ekki von að þú botnir eins vel í þessu og við, sem eldri erum; en auðheyrt er það, að ekki vantar þig vitið, og þú ert gott mannsefni. Samt ætla jeg að sýna þjer með fám orðum, að mótbára þín er á engu byggð; og sanna jeg það með okkur, sem erum nú 12 í þessari nefnd, og allt handiðnamenn og bændur. Við getum allir sjeð ótal yfirsjónir og axarsköpt, sem bæjarstjórnin gjörir. Ímyndaðu þjer nú, að einhver af okkur yrði bæjarfulltrúi, og bætti svo strax úr þeim brestum, sem við höfum svo opt rætt um, en sem bæjarstjórnin fær aldrei

náð til að sjá. Ætli bærinn hefði ekki mikinn hag af slíkum fulltrúa? Ef að þjer fallist á þetta, vinir mínir, þá ræð jeg til að semja um það uppástungu.

Þeir játa því allir.

Þrándur: Nú skulum við sleppa þessu efni. Tíminn líður, en enginn okkar er enn farinn að lesa blöðin. Bárður! ljáðu okkur þarna seinustu blöðin.

Bárður: Hjerna er þá eitthvað af þeim.

Þrándur: Fáðu honum Teiti stúdent það; sá kann látínuletrið.

Teitur: Hjer stendur: „um tvö dýr fásjen á Íslandi“.

Þrándur: Jeg vil ekki heyra neitt um þessi dýr. Hlauptu yfir þau; jeg held það verði lítill arðurinn fyrir land og lýð af þessum ónáttúrlegu dýrum; það er annað, ef það væru alminnilegar ær eða kýr. En hvað er í frjettum frá útlöndum?

Teitur: Hjer stendur þá, „að Örsted gamli, ráðgjafi innanríkismálanna, afsagði að gegna því, að halda uppi svörum á þinginu um verzlunarfrelsi Íslendinga“.

Þrándur: Þarna hafið þið það, sem jeg hef lengi sagt. Nefnið ekki ráðgjafana, þeir eru orðnir verri enn hjúin, þeir standa upp í hárinu á sjálfum konunginum, og afsegja honum að hugsa nokkra ögn um landsins gagn og nauðsynjar.

Mósteinn: Getur ekki neitt um Tyrkjann?

Teitur: Hjer segir það af Tyrkjanum, að stríðið sje nefnilega byrjað milli Rússa og Tyrkja, að slegið hafi í smáorustur með þeim, einnin sló með þeim í sjóorustu.

Mósteinn: Jeg vil fá að vita, hvor hefur betur.

Teitur: Mjer skilst á því, sem hjer stendur, að Tyrkjanum veiti miður, en að bæði Englendingar og Frakkar muni ætla að hjálpa honum, svo hann líði ekki undir lok.

Mósteinn: Það vildi jeg að frjettist fyrir mitt sumar, að Tyrkinn væri liðinn undir lok, svo að mórinn yrði reiddur heim fyrir haustið, eins og vant er.

Þrándur: Því skal jeg þó ekki trúa, að Englendingar hjálpi hundheiðnum Tyrkjanum, sem trúir á tunglið, og þó ekki nema fyrsta kvartilið af því. Því þið vitið það, að þetta hálfa himintungl gildir hið sama hjá Hundtyrkjanum, eins og krossmarkið í kristnu landi.

Þorkell þófari: Bárður, á ekki húsbóndinn Vestmanneyjaránið?

Bárður: Það er búið að rífa það upp í rjúpnapípur undir fyrirvafið.

Þrándur: Þegi þú, Bárður! þú kannt ekki að tala á þessu þingi; en það vildi jeg að við frjettum, að Hundtyrkinn yrði

reittur eins og rjúpa. Og sá hugsar ekki um sóma og gagn þessa lands, sem ekki er fús til að leggja lífið í sölurnar á móti honum.

Þorkell: Jeg kann utan bókar grein úr Vestmanneyjaráninu; hún hljóðar svona: „Tyrkjar eru allir svartir á háralit með rauðar uppháar skotthúur, og gjörðar svíngular að neðan úr silki. Þeir eru á síðum kjólum svíngulum af sama efni, fjögra faðma á lengd; þeir eru á línbróknm með gula og rauða járnbrydda skó á fótum, en sumir ganga berfættir. Þeir hafa rakaðan koll og ekki skegg, nema á efri vörinni, og eru svo illilegir, að enginn skyldi trúa því; þeir hafa höndur og fætur eins og mennskir menn, en eins og klær í stað nagla; eins og hnífar standa út úr olbogum þeirra, hnjám eða bringu, eins og eldur brennur úr augum þeirra, og ekki spúa þeir einungis eitri, heldur og líka brennisteini; og svona var þeim lýst fyrir 10 árum.“

Þrándur: Rjettu mjer staup af brennivíni, Bárður! Mjer sortnar fyrir augum, þegar jeg heyri slík tíðindi. Jeg drekk upp á það: Bevara oss frá grimdaræði Tyrkjans! og guð blessi bæði hús og menn! En nú heyrið þið það, hvort það er gustuk að ganga í lið með Tyrkjanum. Nei, það væri rjettast að allir röskir ungir menn um allt land, en sjer í lagi úr Vestmanneyjum, tækju sig saman og sigldu til Kaupinhafnar til að berja á Tyrkjanum.

Lýður: Jeg treysti mjer næstum til að vera fyrirliði þeirra manna.

Teitur: Heldurðu nokkur maður velji lausamann fyrir hershöfðingja?

Lýður: Þú þarft ekki að skensa mig; jeg gæti dugað eins vel og hver annar.

Magnús Sálarháski: Það hefði jeg þó hugsað, að hershöfðinginn þyrfti að vera fastur fyrir, og mætti ekki vera eins laus í sjer og móhraukur. Og að því leyti hefur Teitur rjett fyrir sjer; og að minnsta kosti þyrfti Lýður að læra ýmislegt áður.

Lýður: Jeg á þá líklega að læra það af honum Teiti þarna, sem aldrei hefur fengið brauð, og skrifar allt upp úr Straums Hugvekjum, þá sjaldan hann fer í stólinn. (Þeir fara nú að rífast og reiða upp hnefana, standa upp af stólunum, og ætla að hlaupa saman).

Þrándur (ber í borðið og kallar:) Engin áflog, engar riskingar, vinir mínir! Við skulum sleppa þessu; það á hver að ráða sinni meiningu. En gefið mjer hljóð og heyrið hvað jeg segi. Það ræð jeg hverjum, sem hershöfðingi verður á móti Tyrkjanum, að lesa Karlamagnúsarsögu, Krókarefssögu og Bragðamáfusarsögu. Það mundi ekki heldur skaða, þó hann kynnti

sjer Trójumannasögu og Kroniku þá, sem heitir Alexander Magnús.

Bárður: Nú slær kirkjuklukkan.

Þrándur: Við skulum þá fara. (Þeir standa upp og ganga út með þrasi og þrefi).

# Þriðji þáttur.

## 1. Atriði.

### Pjetur. Páll.

Pjetur: Nú skal jeg segja þjer skrítna sögu, sem jeg veit, að bæði þú og aðrir munu brosa að; og jeg vona, að þú takir þátt í öllu með mjer.

Páll: Jeg veit ekki hvað þjer er niðri fyrir; en lofaðu mjer samt að heyra það.

Pjetur: Þekkirðu ekki hann Þránd Þiðrandason?

Páll: Heitir hann ekki svo, vefarinn hjerna upp í bænum, þessi mikli þjóðmálaskúmur, sem setur út á allt og rífur niður alla embættismenn?

Pjetur; Jújú, sami er maðurinn. Jeg var áðan með nokkrum mönnum, sem voru mjög gramir við Þránd vegna bermælgi hans, og höfðu heyrt til hans hjerna um daginn inn á Skálanum, hvernig hann liggur stjórninni á hálsi fyrir hvað eina, og þykist sjálfur hafa vit fyrir 12 kónga. Þeir voru svo uppvægir, að þeir vildu vitna upp á hann sumt, sem hann hafði talað, og sekta hann svo fyrir honum til smánar.

Páll: Jeg vildi líka óska þess, að aðrir eins karlar fengju sín makleg málagjöld; því þarna sitja þeir uppbelgdir af öli og brennivíni, og setja út á sjerhvern embættismann, æðri sem lægri. Það getur líka orðið tjón að því, þar eð almúginn hefur ekki svo alls kostar vit á að sjá, hve ólíklegt það er, að vefari, þófari eða hattari geti sjeð það allt út í hörgul, sem alvönum embættismönnum veitir fullerfitt að sjá við,

Pjetur: Það er nokkuð til um það; því Þrándi vefara þykir ekki meira fyrir að vefa lög handa öllu landinu, enn voð í pils handa konunni; hann er hvorttveggja, rjettur voðmálavefari og þjóðmálaþrefari. En mjer líkaði ekki aðferðin, sem hinir vildu hafa við Þránd; því að hegna slíkum pilti, er ekki til annars enn að vekja athygli alþýðunnar á honum, og hana fer þá fljótt að taka sárt til hans. Jeg held nú, að menn ættu heldur að gjöra að

honum opinbert háð, og leika hann í nýja leikhúsinu. Það mundi hrífa betur.

Páll: Hvernig ætti að fara að því?

Pjetur: Við skulum báðir ganga upp í bæ til hans, eins og við sjeum sendir frá stiptamtmanninum og bæjarfógetanum, og skulum afhenda honum þessi skjöl, sem jeg hef ritað undir nöfnum þeirra, um það, að hann sje nú í dag kosinn bæði fyrir bæjarfulltrúa, og eigi að mæta á næsta bæjarþingi, og fyrir alþingismann fyrir Vestmanneyjasýslu, til að sitja á næsta alþingi. Síðan skulum við láta dynja yfir hann allskonar málefni og bænarskrár, sem hann á að skera úr og segja um álit sitt. Svo skulum við sjá, hve aumur hann verður; og hann skal sjálfur komast að raun um, að það er sitt hvað, að skrafa á víð og dreif um landsins gagn og nauðsynjar, eða að standa með sóma í vandasamri stöðu.

Páll: Hvaða árangur verður þá af þessu?

Pjetur: Hann verður sá, að annaðhvort skal hann út úr dauðans vandræðum stökkva burt úr bænum, eða auðmjúklega biðja um lausn sína og játa ónytjungsskap sinn. Jeg er nú einmitt kominn þess eyrindis að biðja þig, kunningi, að hjálpa mjer til að gjöra Þrándi þennan grikk, því jeg þekki þig vel í slíkum ráðum.

Páll: Og jeg trúi ekki öðru, enn að þetta megi vel takast. Það er þá bezt, að við förum strax til hans, fyrst þú hefur skjölin á reiðum höndum.

(Þeir berja á dyr).

## 2. Atriði.

### Pjetur. Páll. Þrándur.

Pjetur: Sælir verið þjer, herra Þrándur! Jeg er kominn hjerna með skjöl til yðar frá stiptamtmanninum og bæjarfógetanum, þess efnis, að þjer sjeuð kjörinn bæjarfulltrúi, og þingmaður fyrir Vestmanneyjasýslu. Þeir hafa álitið, að af þeim mönnum, sem um var að velja, þá hefði enginn orðið valinn betri, og ekki til líka nokkur eins góður.

Páll: Lofið mjer líka, herra Þrándur! að óska landi og lýð til lukku og blessunar með kosningu yðar; og jeg gratúljera yður sjálfum til sömu lukku og blessunar, og í þriðja lagi gratúljera jeg þeim mönnum með vitið, sem loksins hafa nú fengið náð til að sjá, hvílíkur maður faldist í yður, svo að þjer þurfið nú ekki lengur að grafa yðar mikla pund í jörðu.

Þrándur: Þessi heiður kemur mjer raunar nokkuð óvart, bræður! og jeg verð að biðja ykkur báða sameiginlega að fyrirgefa mjer, þó jeg taki á móti þessum skjölum og heiðarlegu störfum í hvunndagsfötunum mínum; en skilið kærri kveðju minni til stiptamtmannsins og fó-

getans, og því með, að jeg skuli vakinn og sofinn hugsa um gagn og nauðsynjar þessa bæjar, og Eyjanna eins, fyrst að mjer hefur þó loksins verið trúað fyrir þeim störfum, sem jeg nú þegar lengi hefi brotið á og bleytt í huga minn.

Pjetur: Og jeg segi yður það satt, þrándur þingmaður! stiptamtmaðurinn gengur að því vakandi, að því kjördæmi er vel borgið, sem á mál sín í yðar höndum.

Páll: Og jeg má segja yður það líka, þrándur bæjarfulltrúi, að fógetann hefur dreymt fyrir því, að bænum mundi mikil hamingja standa af aðgjörðum yðar.

þrándur: Jeg vona líka, að það rætist, sem svo rjettláta menn órar fyrir.

Pjetur og Páll: Verið þjer nú blessaðir og sælir! Hamingjan efli yður og aðstoði í föðurlandsins þjónustu.

þrándur: Fylgi ykkur guð og gæfan, og jeg þakka ykkur hjartanlega fyrir komuna, og segi mig skyldugan að gegna fyrir ykkur málum aukreitis, og taka við uppástungum og bera fram bænarskrár frá ykkar hendi.

## 3. Atriði.

### Þrándur. Þrúður.

þrándur: Þrúður! Þrúður!

þrúður (frammi): Jeg má ekki vera að gegna þjer, maður!

þrándur: Kondu strax! Jeg þarf að segja þjer nokkuð, sem jeg er viss um, að þig hefur aldrei órað fyrir á æfi þinni.

þrúður: Hvað stendur til?

þrándur: Ertu birg af kaffi?

þrúður: Jeg held þú megir vita, hvað því líður, að það er engin baun til á bænum.

þrándur: Ja, það tjáir nú ekki að vera kaffilaus hjeðan af; innan stundar heimsækja þig, jeg get ímyndað mjer, rjett allar heldri konur hjer í bænum.

þrúður: Ertu að skrafa upp úr svefni, maður?

þrándur: Já, jeg skrafa það bæði í vöku og svefni, að þú ert orðin bæði alþingismanns og bæjarfulltrúa madama.

þrúður: Jeg bið þig, Þrándur, kondu mjer nú ekki til aptur! Þú mátt muna hvernig seinast fór.

þrándur: Sástu ekki tvo menn með hvíta bringu, sem fóru hjeðan í þessu?

þrúður: Einhverja menn sá jeg.

þrándur: Þeir voru hjerna hjá mjer, og færðu mjer þessi skjöl frá stiptamtmanninum og fógetanum um það, að jeg væri kosinn bæði fulltrúi fyrir bæinn hjerna, og þingmaður fyrir Vestmanneyjar.

þrúður: Því má fjandinn trúa í minn stað.

þrándur: En láttu nú líka sjá, kona mín góð! að þú takir upp heldri manna siði, og leggir niður alla þína fyrri vefarakæki.

Þrúður: Æ, er það satt, elskan mín góð?

Þrándur: Það er eins satt, og jeg stend hjerna. Þarna eru skjölin; líttu á nafn stiptamtmannsins, gjörðu ekki nema horfðu á signetið! Sjáðu, þarna er nafn fógetans, það er líka svo lítið signetið! Því segi jeg það, kona! madömurnar koma nú til að óska þjer til hamingju, og jeg get vel trúað, að einstöku frú komi líka til að gradúljera þjer.

Þrúður (hleypur um hálsinn á honum): Æ, elskan mín bezta, fyrirgefðu mjer allt, sem jeg hef áður brotið á móti þjer!

Þrándur: Það er sjálfsagt, að jeg fyrirgef þjer það allt; en berðu þig þá líka að hafa á þjer heldri manna snið hjeðan af. Svo skal jeg láta mjer þykja vænt um þig. En hvar get jeg fengið mjer skrifara núna í bráðina?

Þrúður: Þú verður að reyna til að nota drenginn hann Bárð, og ljá honum heldur föt af þjer, svo hann sje þokkalegur. En heyrðu, elskan mín! fyrst þú ert kominn í bæjarstjórnina, þá þyki mjer líklegt, að þú sjáir um, að hann Jón tóusprengur fái krúnuna kembda fyrir smánina, sem hann gjörði mjer í dag.

Þrándur: Það máttu ekki hugsa, elskan mín! Alþingismanns og bæjarfulltrúa madaman má ekki láta koma sjer til hugar, að hefna fyrir óskunda, er hún leið sem vefarakona. Kallaðu á hann Bárð!

## 4. Atriði.

### Þrúður. Þrándur. Bárður.

Þrúður: Bárður!

Bárður: Hvað, hvað þá!

Þrúður: Bárður, þú mátt ekki hvá svona hvað ofan í annað, því veiztu ekki hjá hvaða húsbændum þú ert?

Þrándur: Jeg veit ekki betur enn jeg eigi heima hjerna í vefarabænum.

Þrúður: Og rjett er nú það; jæja, hann er nú orðinn fulltrúi, maðurinn minn.

Þrándur: Jeg vissi það nú, að hann var ekki trúlaus, en fáa hjelt jeg líka vera fulltrúa.

Þrúður: Hann er, segi jeg, orðinn bæjarfulltrúi, kominn í bæjarstjórnina; skilurðu það nú?

Bárður: Því trúi jeg ekki; það væri skárra að vera orðinn það úr rjettum og sljettum vefara.

Þrándur: Talaðu með meira respekti, Bárður! því þú skalt vita það, að jeg ætla að gjöra þig að skrifara hjá mjer.

Bárður: Ekki nema að skrifara? Það er nú fjandans litil upphefð til þess að gera.

Þrándur: Þú skalt komast hærra. Þú getur með tímanum fengið umsjón yfir rennunum og slökkvitólunum. En haltu nú á þjer munninum. Þú verður

að gegna á skrifstofunni fyrir mig nokkra daga, þangað til jeg get fengið annan vanari. En þú verður, gæzkan mín, að ljá honum reiðbrækurnar mínar, því jeg verð sjálfur að vera í sparibrókunum.

Þrúður: Jeg er hrædd um, að þær verði honum of stórar.

Þrándur: Það er sjálfsagt, þær verða honum of víðar; en því verður að tjalda sem til er núna í bráðina.

Bárður: Sjer eru hverjir fjandans hólkarnir, þær ætla hreint að gleipa mig. Jeg veit jeg lít út eins og jeg sje í pilsi.

Þrándur: Heyrðu, Bárður!

Bárður: Já, húsbóndi góður!

Þrándur: Dóninn þinn, láttu mig ekki optar heyra slíka titla! hve nær sem jeg kalla til þín hjeðan af, þá áttu að ansa og kalla mig herra Þiðrandasen; og þegar einhver kemur og spyr eptir mjer, áttu að segja: bæjarfulltrúi, herra Þiðrandasen er heima.

Bárður: Á jeg að svara því, hvort sem herra Þiðrandasen er heima, eða ekki?

Þrándur: Þú skilur mig ekki, Aulabárðurinn þinn! Þegar jeg er ekki heima, áttu að svara: bæjarfulltrúi herra Þiðrandasen er ekki heima; og þegar jeg vil ekki láta vita, að jeg sje heima, áttu að svara: bæjarfulltrúinn er vant við kominn í dag. Heyrðu, gæzkan mín! þú verður að setja upp ketilinn, svo þú hafir eitthvað að bjóða madömunum, þegar þær koma; því það eflir nú ekki alllítið álit okkar og orðstýr, ef það berst út, að bæjarfulltrúi, herra Þiðrandasen, gefi góð ráð, og madaman hans gott kaffi. Jeg kvíði mest fyrir því, hjartað mitt! að þú gjörir eitthvert axarskaptið, meðan þú ert ekki orðin vön þessari stöðu, sem þú ert nú komin í. Bárður! hlauptu fram og segðu henni Imbu að bregða sjer eptir kaffibaununum fyrir áttskildinginn þann arna; það er altjend hægt að kaupa meira. Þú skalt hafa það fyrir reglu hjeðan af, gæzkan mín! að skrafa ekki mjög mikið, þangað til þú lærir að tala alminnilega, og eins og madömu sómir. Ekki máttu þó vera of óframfærin; því það verður þú að muna, að nú ertu madama, og þú mátt ekki gleyma því, að reyna til af fremsta megni að leggja niður alla þessa vefarakæki, róður og hristing, því þú átt að ímynda þjer, að þú hafir verið madama síðan þú giptist. Á morgnana áttu að bera á borð, eins og 2 eða 3 gestir sjeu komnir; miðdegiskaffi máttu ætla eins mörgum, og fingurnir eru á hendinni á þjer; svo er nú sezt við spil á kveldin. Til er eitt spil, sem heitir Laumbur, það er allt annað, enn Lauma; jeg vildi gefa 100 ríkisdali til þess að þú og hún dóttir okkar kynni Laumbur. Þú verður þess vegna að taka vel eptir, þegar þú sjerð aðra

spila hann, svo þú komist sem fyrst niður í honum. Á morgnana skaltu ekki fara á fætur fyr enn kl. 9 eða hálf 10, því það eru ekki aðrir enn erfiðismenn og klakaklárar, sem fara á fætur með sólu. Þó verður þú að fara fyr á fætur á Sunnudagsmorgnana, því þá er að týgja sig til útreiða, senda eptir hestum og lána söðla. Þú verður að sjá um það, að fylla allar gluggakistur með urtanáttpottum, og þrep og syllur með ýmislegum leirkvikindum. Þegar einhver hnerrar, skaltu ekki segja: guð hjálpi þjer! heldur hnegja þig þegjandi; eins þegar þú geispar sjálf, skaltu ekki halda höndinni fyrir munninn, því allir heldri menn eru nú hættir því. Í samkvæmi skaltu ekki vera hæglát eins og brúða, heldur á hjólum eins og madama. Bittinú, einu gleymdi jeg: þú verður að útvega þjer hvolp til að hampa í kjöltunni, eins og ungbarni; því það gjöra nú allar heldri manna konur. Hún Randalín kerlingin á fjelegan hvolp, og hún ljær þjer hann, þangað til við fáum annan, sem samsvarar rjett siðnum. Hundinum verður þú að gefa franskt nafn, og jeg skal reyna til að upphugsa það, þegar jeg kemst til. Þú átt optast nær að láta hvolpinn liggja í kjöltu þinni, og sjálfsagt láta vel að honum, þegar ókunnugir eru komnir.

Þrúður: Ekki get jeg verið að því, hjartað mitt gott! Hundarnir, sem róta í öllum óþverra, gjöra ekki annað, enn svína út fötin mín og setja á mig útilykt.

Þrándur: Jeg vil engin ummæli heyra; ef þú átt að vera eins og önnur madama, þá verður þú að hafa á þjer alla madömu siði. Hundurinn getur líka gefið þjer efni til umtals, því þegar þú hefur um ekkert að skrafa, getur þú vakið máls á kostum og kunnáttu hundsins, sjer í lagi ef þú kennir honum að ganga á apturfótunum. Gjörðu nú eins og jeg segi þjer, gæzkan mín góð! jeg kann betur alla manna siði enn þú. Speiglaðu þig í mjer; þú skalt sjá, að jeg kann að afleggja gamla manninn; og mjer skal ekki farast eins og sagt er um Skurðar-Skeggja, sem kjósa átti þingmann á kjörþingi; milli þess hann var að hugsa sig um stafina í þingmannsnafninu, stakk hann pennanum upp í sig, því hann minnti að hann væri að skera kind, en var vanur að halda á hnífnum þversum í munninum. Farðu nú fram að undirbúa allt, svo það sje á reiðum höndum. Jeg þarf að tala nokkuð við hann Bárð í einrúmi. (Þrúður fer fram).

## 5. Atriði.

### Þrándur. Bárður.

Þrándur: Heyrðu, Bárður!

Bárður: Hvað viljið þjer, herra Þiðrandasen?

Þrándur: Heldurðu ekki, að margir verði til að öfunda mig af þessari upphefð?

Bárður: Þó svo væri, held jeg þjer þurfið ekki mikið að kæra yður um það; þeir hefðu átt að gjöra mig að bæjarfulltrúa. Jeg skyldi bezt sýna þeim, hvort jeg ekki snjeri bakhlutanum við þeim, sem öfunduðu mig af því.

Þrándur: Jeg gjöri það nú líka; en jeg kvíði mest fyrir einum og öðrum smáserímóníum; því heimurinn er fullur af allra handa fettum og brettum, og flestir líta meir á húsaskúm og hjegóma, enn kraptinn og kjarnann í hlutnum. Jeg vildi óska, að sá dagurinn væri liðinn, sem jeg á að mæta fyrst í bæjarstjórninni, þá skyldi liggja vel á mjer; því þegar til starfa og stefjanna kemur, kvíði jeg ekki fyrir því. En jeg verð að búa mig undir, að geta gengið svo fram fyrir hina bæjarstjórana, að jeg ekki breyti út af vanalegum siða- og serímóníum.

Bárður: Jeg gjöri nú lítið úr þeim, siðamóníonum þeim arna. Enginn alminnilegur maður bindur sig hið minnsta við þær. Ef jeg ætti að mæta í bæjarstjórninni, þá gjörði jeg ekki annað enn rjetti þeim höndina, góðu herrum, hneigði mig svona mátulega mikið, og fitjaði upp á framan í þá, til að sýna þeim, að nú væri sá kominn í bæjarstjórnina, sem ekki ljeti snúa sjer eins og snældu.

Þrándur: Þú verður þó að gá að því, Bárður, að maður verður að halda dálitla ræðu, í fyrsta sinni sem maður mætir á fundi. Jeg treysti mjer nú að sönnu til að tala á við hvern þingmann, sem nú er, því jeg kann upp á mínar tíu fingur allar þingræður þeirra; en af því alþingið hefur ekki innleitt, jafnvel ekki stungið upp á neinum vissum orðum nje orðatiltækjum fyrir þá, sem mæta á fundum í fyrsta sinni, þá veit jeg ekki alminnilega, hvað segja skal.

Bárður: Það gengur yfir mig, að þjer ekki skuluð kunna neinn þess konar formála úr þing- og þjóðfundartíðindunum; því eru þau ekki full af formálum, og lítið annað enn formálar frá upphafi til enda? En fyrst jeg er orðinn skrifari, þá ætti mjer ekki að vera of vaxið að búa til upp úr mjer dálítinn formála, t. a. m.: Þó að jeg sje nú hjer kominn, og standi upp að þessu sinni, þá er það ekki af því, að jeg hafi nokkuð að segja, sem þjer hafið ekki áður margheyrt á þessum stað; heldur er það til þess, að þessir veggir og þetta lopt í þessum sal geti bergmálað af röddu minni, og borið vitni um það, að aumur og vesæll vefari kemur nú í fyrsta sinni fram, svo sem fulltrúi bæjarins.

Þrándur: Nei, svei aptan þessari byrjun, Bárður!

Bárður: Jeg ætlaði nú ekki heldur að byrja svona. En svona skyldi jeg þá heldur byrja ræðu mína: Þar sem mjer nú hefur hlotnast sú virðing, að standa hjer upp í fyrsta sinni, þá lýsi jeg gleði þessa bæjar, undir eins og ánægju minni yfir því, að vesæll vefari hefur þó loksins vikið úr setubekknum, og hlotið sæti á bekk með bæjarfulltrúum.

Þrándur: Aldrei geturðu skilið þig við vefaranafnið! Jeg get ekki heyrt það nefnt. Það má ekki heldur nefna slíkt í sjálfri bæjarþingsstofunni, því þar má jeg ekki láta annað vitnast, enn að jeg sje borinn og barnfæddur sem bæjarfulltrúi. Ef jeg hjeldi slika ræðu, þá yrði jeg til spots og athláturs. Nei, Bárður! jeg gjöri lítið úr ræðunum þínum. Sá skal eiga mig á fæti, sem ber mjer það á brýn, að jeg hafi verið vefari. Jeg hef svo ekki setið í vefstólnum nema mjer til dægrastyttingar, milli þess jeg hef verið að bíða eptir heptunum af þíngtíðindunum.

Bárður: Sá skal líka fá krúnuna kembda, sem bríxlar mjer um, að jeg hafi verið vefaradrengur.

Þrándur: Því gaztu þá ætlast til, að jeg skyldi tala eins og þú gjörðir áðan?

Bárður: Hafið ofboðlitla þolinmæði! þjer eruð svo fljótgáfaður, herra Þiðrandasen. Jeg ætlaði sumsje að láta þá góðu herra skilja svona í bróðerni, að, ef þeir gerðu gis að mjer fyrir það, þó jeg hefði verið vefari, þá skyldu þeir sjálfa sig fyrir hitta. Og ef jeg hefði þá sjeð minnsta bros á nokkrum þeirra, ætlaði jeg að segja: Þið haldið, ef til vill, herrar mínir! að jeg sje hjer kominn til að láta blæja að mjer; síðan ætlaði jeg að reka högg í ræðustólinn og láta dæluna ganga, svo að þeir gætu sjeð af minni fyrstu ræðu og formála, að jeg væri ekki barnið blauða, og að þeir hefðu þó einu sinni fengið þann í bæjarstjórnina, sem þyrði að tala í bæjarins þarfir; því láti bæjarfulltrúinn ekki til sín taka, meðan hann er nýr af nálinni, hvers er þá annars von, enn að bæjarstjórnin komi honum hið bráðasta fyrir kattarnef?

Þrándur: Þú talar eins og dóni, þjösnalega og óþinglega. Jeg skal hugsa mig um það sjálfur, hvernig jeg skal haga orðum mínum. Við skulum nú fara fram.

# Fjórði þáttur.

## 1. Atriði.

### Bárður (einsamall).

(Reiðbrækurnar, sem hann er í, eru með hárauðu miðseymi, ná honum upp undir höndur, og eru svo víðar, að þær eru eins og pils).

Svei mjer þá alla daga, ef jeg get skilið í því, hvernig nokkur maður gat látið sjer detta í hug, að gjöra hann húsbónda minn að bæjarfulltrúa; því mjer finnst það vera sitt hvað, að hafa alla sína æfi setið í vefstólnum, eða eiga nú fyrst að fara að sitja í bæjarfulltrúa sæti; nema þeir hafi hugsað sem svo, að eins og vefarinn getur komið lagi á vefinn, þegar ólag kemst á hann, eins geti líka góður bæjarfulltrúi kippt í lag öllu því, sem aflaga fer í bæjarstjórninni. En þeir hafa ekki gætt þess, góðu herrar, að hann húsbóndi minn er einhver hinn klaufalegasti vefari, sem jeg hef þekkt, enda munu þeir og hljóta í honum einhvern hinn ónýtasta bæjarfulltrúa, sem við höfum nokkurn tíma fengið. Það verður þá líklega eina gagnið af þessu vali, að jeg verð skrifari; því síðan jeg var barn, hefur mig langað til að komast á kontór; jeg sje hvernig kontóristarnir hafa það. Það er haft við þá, eins mikið og sjálfa höfðingjana; og jeg held að mjer megi bregða við það; enda skal jeg kenna dónunum að bera respekt fyrir Bárði. Líka hefði jeg hugsað, að jeg þyrfti ekki að hafa allan skaðann á þessari stöðu; það hrýtur margt að á þeim skrifstofunum þeim arna; en sportlur og titlar, það eru Bárðar ær og kýr! En þarna kemur þá hún Imba; hún veit nú ekki eina ögn af þessari breytingu; hún gengur fram grett og hálfbogin, eins og hún er vön að vera yfir rjúpurokknum.

## 2. Atriði.

### Ingibjörg. Bárður.

Ingibjörg: Hæ! hæ! hæ! Sjer er hver ósjónin! Það hugsaði jeg þó sizt, að jeg mundi sjá hjerna Búrfells biðilinn, hann Gvend Hölluson. Slíkan brókarskjóna hef jeg aldrei sjeð á minni lífsfæddri æfi! Á jeg ekki að steypa yfir þig pilsi líka, því þá verður fyrst engin mannsmynd á þjer?

Bárður: Svei úr þjer háðinu! Hefurðu þá aldrei sjeð reiðbrækur með rauðum streng? Þið eruð svona, sem aldrei hafið komizt upp úr slorfjörunni, þið gónið og gapið, eins og beljurnar, ef þær

sjá mann einhvern tíma í öðrum fötum, enn vant er.

Ingibjörg: Jeg sagði nú þetta að gamni mínu, en mjer heyrist þú tala af þjósti; á jeg að segja þjer nokkuð? Jeg er nú búinn að læra að lesa í lófa. Hjer var kerling í dag, sem kann að lesa í lófa á mönnum; jeg gaf henni brauðbita, og fyrir það kenndi hún mjer þann galdur, að sjá fyrir fram forlög manna af því að lesa í lófa á þeim. Lof mjer að sjá lófann á þjer, svo skal jeg strax segja þjer fyrir fram forlög þín!

Bárður: Nei, ónei, Ingibjörg! Bárður er ekki eins heimskur og þú hyggur. Jeg skil nú fyr enn skellur í tönnunum á mjer. Þú hefur komizt á snoðir um upphefðina, sem jeg á von á.

Ingibjörg: Nei, svei mjer ef jeg veit minnstu ögn um hana.

Bárður: Og vert' ekki að ólíkindalátunum þeim arna; svo sem jeg er lifandi, þá hefurðu heyrt það, og því áttu hægt með að spá fyrir mjer. Nei, nei, Bárður er eldri enn tvævetur, og lætur ekki fara í kringum sig,

Ingibjörg: Þó jeg sje dauð út borin, þá veit jeg ekki ögn af því, sem þú ert að tala um.

Bárður: Hefurðu ekki talað nýlega við hana madömu Þiðrandasen?

Ingibjörg: Jeg held þú sjert vitlaus, maður; þekki jeg nokkra madömu Þiðrandasen?

Bárður: Jeg skal þó ekki trúa öðru, enn að jómfrúin hafi sagt þjer það.

Ingibjörg: Blessaður vertu, Bárður, hættu rækáls þvættingnum þeim arna!

Bárður: Hana þá, Imba, þarna er á mjer höndin; spáðu nú eins og þú vilt. En það þarf enginn að segja mjer, að þú hefur komizt á snoðir um allt saman, þó þú látir svona ókunnuglega. En það fer nú líka eins vel á því, að þú getur látið nokkuð ólíkindalega; því okkur mun henta það bezt hjúunum hjerna eptirleiðis, að kunna að fela nokkuð bakvið eyrað. Já já, hvað sástu nú í lófanum á mjer?

Ingibjörg: Jeg sje það, Bárður! að hafaldaskaptið húsbóndans, sem liggur þarna undir borðinu, ríður um hrygginn á þjer, áður dagur er úti. Skammast máttu þín, að búa þig svona afkáralega, eins og athlægi, þegar svo mikið er til að gjöra, og hafa spánýjar reiðbrækur húsbóndans til að spreyta þig í.

Bárður: Heyrðu, Ingibjörg mín! Jeg þarf nú ekki að lesa í lófann til að spá. En sannaðu það, blessuð! að þú færð eitt eða tvö kjaptshögg, eptir því sem á stendur, fyrir skammirnar úr þjer. Og þarna kemur nú strax spádómurinn fram.

(Hann rekur henni utan undir).

Ingibjörg: Æ, æ, æ, þennan löðrung skaltu fá borgaðan!

Bárður: Jeg skal kenna þjer, að bera í annað sinn respekt fyrir alminnilegum manni.

Ingibjörg: Bíddu við! Húsmóðirin kemur nú bráðum.

Bárður: Fyrir skrifara hjá bæjarfulltrúa . . .

Ingibjörg: Hún hefnir þess á skrokknum á þjer.

Bárður: Fyrir kontórista . . .

Ingibjörg: Já, þú skalt svei mjer fá þetta kjaptshögg borgað.

Bárður: Fyrir skrifara, seg' eg, sem haft er við eins og höfðingja.

Ingibjörg: Já, það er í fyrsta sinni sem gengið hefur verið á mjer með höggum og slögum í þessari vist.

Bárður: Fyrir kontórista, seg' eg, sem sýnir svart á hvítu, það sem öll bæjarstjórnin þenkir og ályktar.

Ingibjörg: Jeg held hann sje orðinn öldungis hringlandi strákskrattinn. Þrúður! Heyrðu, húsmóðir góð, kondu inn!

Bárður: Þei, þei, sei, sei! þú færð mestu skömm hjá húsmóðirinni. Jeg sje nú, að þú veizt ekki hvað um er að vera; það er þess vegna ekki gustuk fyrir mig að vera uppi á móti þjer líka. Heyrðu, húsbóndinn hefur fengið brjef um það, að hann er orðinn bæjarfulltrúi, víst það; húsmóðirin bæjarfulltrúa madama; Sæunn hrein og klár jómfrú, og jeg sjálfur skrifarakontóristi. Þess vegna máttu geta því nærri, að það er ekki fyrir mig að standa á höfðinu í öllu, eins og áður. Því er jeg nú líka kominn í reiðbrækurnar húsbóndans utan yfir garmana mína. En mjer líkar ekki þetta, þú ert að sprogsetja mig.

Ingibjörg: Þú þarft ekki heldur að vera að ljúga þessu að mjer.

Bárður: Það er dagsatt, stúlka, sem jeg segi þjer. Sko, jómfrúin kemur nú þarna. Hún getur bezt borið um, hvort það er ekki satt.

## 3. Atriði.

### Sæunn. Ingibjörg. Bárður.

Sæunn: Æ, guð hjálpi mjer, vesaling! Jeg held að nú ætli að slitna upp úr því.

Bárður: Það er óþarfi að vera að gráta núna, jómfrú góð, þegar foreldrar yðar hafa komizt í slíkan veg.

Sæunn: Þegiðu á þjer munninum, Bárður! Svei honum ekki aptan jómfrútitlinum þeim arna!

Bárður: Hvað viljið þjer þá vera? Jómfrúnafnið situr þó vel á hverri stúlku, og heldur vildi jeg eiga fyrir konu þá, sem væri jómfrú, enn þá, sem ekki væri það.

Sæunn: Ja, jeg hugsa nú minnst um titlana þá arna, og er ánægð með að heita

bóndadóttir; því þá gæti jeg heldur haft von um að ná í þann, sem næstur er hjarta mínu.

Bárður: Nú, það er svona; hún er þá að gráta af því, jómfrúin, að hún er orðin leið á titlinum og langar til að giptast. Jeg get þá huggað yður með því, að það er óþarfi fyrir yður, að úthella meydómnum með tárum; þeir fá hann færri enn vilja, ef mig grunar rjett, því mörgum mun hugleikið að mægjast við bæjarfulltrúann.

Sæunn: Jeg tek ekki nokkrum manni, nema Brandi, því honum hef jeg lofast.

Bárður: Guð fyrirgefi yður, jómfrú góð! Ætlið þjer að eignast spengjara, sem jeg get varla verið þekktur fyrir að hafa nokkur mök við, og er jeg þó ekki nema skrifari. Nei, þjer megið ekki hugsa hjeðan af upp á leirdiska borara!

Sæunn: Haltu þjer saman, strákur! jeg skal fyr láta ganga af mjer dauðri, enn láta neyða mig til að eiga annan.

Bárður: Verið nú rólegar, jómfrú mín góð! Við skulum sjá til, jeg og bæjarfulltrúinn, hvort við ekki getum komið Brandi í einhvern veg og losað hann við þetta borverk; fyr er ekki um ráðahag að tala. (Ingibjörg fer að gráta).

Bárður: Því ert þú að gráta, Imba!

Ingibjörg: Jeg græt af gleði yfir gæfu þeirri, sem húsbændum mínum hefur hlotnazt.

Bárður: Ja, þú hefur nú líka orsök til að gleðjast; því hver lifandi maður skyldi hafa hugsað það, að annar eins hrosshaus og þú gæti orðið stofujómfrú.

Ingibjörg: Það hefði líka fjandinn sjálfur mátt hugsa, að annar eins brókarskjóni, og þú ert, gæti orðið kumptóristi.

Bárður: Jeg vil nú ekki vera að tala lengur við ykkur, stúlkur mínar, í þetta sinn. Bæjarfulltrúa madaman á von á gestum. Jeg heyri nú til hennar frammi. Og stofujómfrúin verður að fara að hafa kaffið á reiðum höndum.

## 4. Atriði.

**Ingibjörg. Þrúður** (með hvolp undir hendinni).

(Ingibjörg kemur inn með bolla, og er fas á henni).

Þrúður: Jeg sje það á þjer, Imba mín, að þú veizt nú, í hvaða stöðu þú ert komin; þú skalt hafa svona nokkurt vings á þjer, einkum láta sitjandann ganga til og frá; en jeg skammast mín fyrir skóbragðið þitt, þegar madömurnar koma; settu þarna upp trjeskóna mína; jeg kann altjend svo vel við skóhljóðið danska. Það er líka skömm að sjá þig svona berhöfðaða, það gengur engin stofujómfrú svo; jeg skal ljá þjer þarna danska hattinn

minn, meðan madömurnar standa við. En hvað stendur þarna út úr barminum á þjer, barn!

Ingibjörg: Það eru vefjarrjúpur, húsmóðir góð!

Þrúður: Þú mátt hvorki nefna húsmóður nje húsbónda hjeðan af. Og láttu mig ekki þurfa að tiggja það í þig. Að nefna rjúpur eða rjúpurokk er sök sjer, þegar ókunnugir heyra ekki til; en að hengja þær svona utan á sig og bera þær rjett framan á brjóstinu, það ætla jeg að biðja þig að láta ógjört eptirleiðis.

Ingibjörg: Jeg get nú varast það, að troða utan á mig rjúpunum; en hvað á jeg þá að kalla yður, húsmóðir góð!

Þrúður: Ekki húsmóðir, segi jeg þjer enn, mig býður við þessum sveitakonutitli. Þú kannt þó líklega að nefna madömu.

Ingibjörg: En þegar þjer eruð nú innan um margar madömur, með hvaða nafni á jeg þá að auðkenna yður frá hinum madömunum?

Þrúður: Jeg hef raunar ekki spurt manninn minn að því enn þá; hann kalla nú sjálfsagt allir herra Þiðrandasen, og nú eru madömurnar, eins og þú veizt, kendar við mennina; en að láta kalla mig madömu Þiðrandasen, þykir mjer óviðkunnanlegt, því jeg hef aldrei heyrt, að nokkur madama hafi verið kölluð Þiðrandasen. Jeg vildi að faðir mannsins míns hefði heitið Pjetur eða Páll, Stígur eða Stefán; allt lætur betur enn Þrándur eða Þiðrandi.

Ingibjörg: Eru ekki madömurnar, hús-dama góð! stundum kenndar við fæðingarstað mannanna. Mig minnir jeg hafi heyrt, að meistari Jón Vídalín hafi kallað sig svo eptir Víðidalnum.

Þrúður: Ekki veit jeg hvar maðurinn minn er fæddur: en þú ættir að vita það, því þú ert bróðurdóttir hans og hefur lengst af verið þarna fyrir austan.

Ingibjörg: Hann faðir minn var fæddur á Hrauk á Rangárvöllum, og þar hafa þeir bræður báðir víst verið fæddir.

Þrúður: Hvað nefndirðu bæinn, stúlka?

Ingibjörg: Hraukur heitir hann í Landeyunum; og ef hann vildi kenna sig við fæðingarstað sinn, eins og meistari Jón, ætti hann að kalla sig Hraukalín.

Þrúður: Eptir því ætti jeg þá að heita madama Hraukalín. Nei, jeg þakka hjartanlega fyrir titilinn; sjer eru hver rækals ónöfnin! Þú getur þá kallað mig tóma madömu fyrst um sinn.

Ingibjörg (við hurðina í hálfa gátt): Hvern viltu finna?

Telpa: Skilaðu til hans húsbónda þíns, að hann vefi og vefji meir enn 10 svikarefir. Jeg er nú búinn að ganga

niðrúr nýjum selskinnskóm, til að vitja um rekkjuvoðarefnið.

Ingibjörg: Hverjum á jeg að segja það, barn?

Telpan: Honum Þrándi vefara, húsbónda þínum.

Þrúður: Þú villist, held jeg, og ratar ekki vel, barn! Hjer býr bæjarfulltrúi herra Þiðrandasen.

Telpan: Það er þó aumt til þess að vita, að enginn skuli fá verkefni sitt með skilum, og að vesæll vefari skuli draga menn svona á hárinu.

## 5. Atriði.

### Madama Peturs. Madama Páls.

(Koma inn og heilsa)

### Þrúður. Ingibjörg.

Mad. Peturs: Við erum komnar til að óska yður til gæfu með það, að þjer eruð nú komnar í tölu okkar, eins og við líka óskum herra Þiðrandasen til hamingju, að hann er kominn í hina heiðarlegu bæjarstjórn; og við viljum hjartans fegnar eiga bæði yður og hann að fyrir okkur og mennina okkar.

Þrúður: Jeg gradúlera ykkur ástsamlega fyrir, og þakka míns vegna og mannsins míns. Þið standið þó við meðan þið súpið úr einni kaffispilkomu.

Mad. Peturs: Við komum nú ekki til annars, madama góð! enn óska yður til lukku og vita hvernig yður liði

Þrúður: Jeg marg-gradúlera ykkur, góðu madömur! fyrir alla ykkar fyrirhöfn fyrir mjer og manninum mínum. Það má þó ekki minna vera, enn að þið drekkið eina spilkomu báðar. Tyllið ykkur þarna niður á kistuna. Það sýður nú rjett strax á katlinum. Ingibjörg!

Ingibjörg: Tóma madama!

Þrúður: Sæktu fram ketilinn, og kondu um leið inn með sírópskönnuna og kaffirótina. (Ingibjörg fer fram)

Mad. Páls: Má jeg spyrja yður, madama góð, hvaða titil hafið þjer? Mjer heyrðist stofujómfrúin kalla yður madama Tom.

Þrúður: Og minnist þjer ekki, madama góð! á þessar stúlkur, sem koma svona öllu óvanar úr sveitinni, þær kunna enga mannasiði, en eru að apa sig eptir dönskunni, kunna þó hvorki að gjöra sjer á fæturna, því síður prjóna sjer húfupotlok. Dönsku kunna þær ekki heldur enn rauða gull. (Ingibjörg kemur inn).

Ingibjörg: Tómamadama! Hjerna kem jeg með heila galaríið.

Þrúður: Hvað kallarðu mig, kvennmaður?

Ingibjörg: Tóma madömu, eins og þjer sögðuð mjer.

Þrúður: En hvað kallarðu sírópskönnuna?

Ingibjörg: Jeg kalla hana með kaffirótinni og katlinum heila galaríið.

Þrúður: Hvað heyrist ykkur, madömur góðar? Þarna heyrið þið samt sveitadönskuna. Skeinktu í eina spilkomu handa þeim báðum, þær vilja ekki hafa meira, madömurnar; en jeg skal sjálf láta í sírópið og rjómann. (Hún tekur skeið, þurkar á svuntu sinni, og lætur í sírópíð, síðan fer hún með hana ofan í mjólkurask, sem stóð undir borðinu). Gjörið ykkur nú gott af þessum sopa, madömur góðar! En jeg ætla að brjóta ofan í hjá ykkur hagldabrauðsköku. (Hún tekur hana úr borðskúffunni). Svona nú, það er ekki opt þið komið til mín, verið nú velkomnar!

Mad. Páls: Þarna eigið þjer ofur laglegan hund, madama góð! Hvað heitir hann?

Þrúður: Hann hefur verið kallaður Loðinn, en heitir það ekki lengur, því maðurinn minn ætlar að skíra hann upp aptur og nefna hann eitthvað franskt. Hann er annars of loðinn og kann ekkert krumspráng.

Mad. Peturs: Hvernig á að skrifa utan á brjef til yðar, ef manni ditti í hug að senda yður línu?

Þrúður: Jeg held það sje bezt að skrifa utan á það til mannsins míns, altjend fyrst í stað.

Mad. Peturs: Þjer vitið það, madama góð! að konurnar bauka nú opt með það sín á milli, sem þær vilja ekki láta mennina vita. Kallar hann sig ekki herra Þiðrandasen, maðurinn yðar?

Þrúður: Það trú' jeg hann kalli sig.

Mad. Páls: Ekki má kenna madömuna við það, það er einhvern veginn svo óviðfeldið og óvanalegt.

Þrúður: Margt er líkt með skyldum, madama góð! þetta segi jeg, mjer lízt ekki á það.

Mad. Páls: Má jeg spyrja, madama góð! hvar er hann fæddur, maðurinn yðar?

Þrúður: Jeg man ekki, hvort jeg hef nokkurn tíma heyrt það.

Ingibjörg: Hann er fæddur á Hrauk í Landeyum.

Þrúður: Farðu út með hundinn, Ingibjörg! áður enn hann kæfir okkur madömurnar.

Mad. Páls: Hraukur, það er dáfallegt bæjarnafn. Hann ætti að kenna sig við það, maðurinn yðar, og láta það endast uppá lín; mjer þykja svo falleg viðurnefnin, sem endast svo.

Þrúður: Mjer þykir það nú líka, þegar bæjarnafnið er ekki mjög kotalegt; en það kemur í mig velgja, þegar jeg hugsa

til þess, ef nokkra madömu ætti að kalla Hraukalín.

Mad. Peturs. Mad. Páls. (þakka fyrir kaffið og kyssa þrúði)

Þrúður: Og verið ekki að þakka þennan sopa, það var ekki svo mikið, en þið getið fengið í spilkomunni aptur, ef þið viljið.

Mad. Peturs. Mad. Páls: Nei, við þökkum yður hjartanlega fyrir; við erum nú búnar að afljúka erindunum, og þökkum yður ástsamlega fyrir greiðann og góðmennskuna, og óskum yður til hamingju í yðar nýju stöðu. Verið þjer svo blessaðar og sælar, madama góð! og heilsið manninum yðar.

Þrúður: Jeg marg-gradúlera ykkur fyrir komuna, og segi túsundtak fyrir mig og manninn minn.

## 6. Atriði.

### Ein velbúin hjón. Þrúður. Ingibjörg.

Maðurinn: Sælar verið þjer, madama góð! Við vorum að ganga út að gamni okkar og frjettum á leiðinni, að vegur og virðing hefði nú loksins að maklegleikum hlotnast ykkur góðu hjónum; því hugsuðum við að gjöra eina ferðina, og koma til að gratúljera ykkur.

Þrúður: það ætlar að koma nokkuð af gradúljeringunum þeim arna, þær eru nú nýfarnar tvær; en jeg gradúlera ykkur á móti, og það má nú segja, að það var mál, þó maðurinn minn að minnsta kosti kæmist í einhvern veg. Þið drekkið þó eina kaffispilkomu; jeg hef hjerna á könnunni það sem madömurnar leifðu. Tyllið ykkur niður.

Maðurinn: Nei, við þökkum yður fyrir, góða madama! það er óholt að drekka kaffi, þegar maður er heitur af gangi.

Þrúður: Ráðið þið! Jeg neyði ekki kaffi upp á nokkurn mann; jeg held það fari af mjer að ganga eptir fólki.

Konan: Er hún dóttir yðar heima? Mig langaði til að sjá hana og spyrja hana, hvort hún vildi ekki ríða út á sunnudaginn.

Þrúður: það er guðvelkomið. Ingibjörg! kallaðu á jómfrúna, og segðu henni að hjer sje komin einhver madama, sem þekki hana og vilji fá að tala við hana, því hún ætli að bjóða henni til sunnudagsreiðar.

Ingibjörg: Jeg held hún geti ekki komið, hún var að rimpa saman sokkana sína.

Þrúður: Nei! heyrið þjer, madama góð! hvað hlálegt sveitamálið er, svona tala þær allar dónalegt mál. Jeg get ekki að mjer gjört, að hlæja ekki; hún ætlaði að segja, að hún væri að raffínera sokkana sína.

(Maður kemur inn í dularbúningi og læzt vera Randalín frá Róu).

Randalín: Sæl og blessuð, Þrúður mín! Er það satt, sem jeg hef heyrt, að maðurinn þinn sje orðinn bæjarfulltrúi og alþingismaður? Það hýrnaði á mjer brúnin, þegar jeg heyrði það, allt eins og mjer hefði verið gefið ríxort í heilu lagi. Jeg ætla nú að biðja þig að verða samt ekki stolt, fuglinn minn! heldur kannast við þínar fyrri kunningjakonur.

(Þrúður ansar ekki).

Randalín: Nær varð hann bæjarfulltrúi, maðurinn þinn?

(Þrúður ansar ekki).

Randalín: Þú ert eitthvað hugsandi, skepnan mín! Segðu mjer, nær hann komst í bæjarstjórnina, maðurinn þinn.

Konan: Þú verður að ávarpa madömmuna ögn virðuglegar, kona góð!

Randalín: Fari jeg þá norður og niður, ef jeg hef meira við hana Þrúði í Þrándarbæ, enn jeg er vön; við höfum alla okkar æfi verið svo samrýmdar, eins og einn maður. En hvernig ertu orðin, fuglinn minn, mjer sýnist þú vera orðin svo stór upp á þig.

Þrúður: Jeg kannast ekki við þig kerling; hvað heitirðu?

Randalín: Sá þekkir mig samt, sem er yfir okkur báðum. Þegar þjer hefur legið á skilding, þá hefur þú þekkt Randalíni. Hvor veit nema maðurinn minn komist eins hátt og maðurinn þinn, áður enn hann deyr?

(Þrúði verður illt, hún sýpur á vatnsbolla og leggur höndina á hjartað).

Ingibjörg; Snáfaðu út, kerling! þú talar eins og þú sjert inn á móholti að stórhreykja. (Tekur í höndina á henni og leiðir hana út).

Þrúður: Bíðið á meðan, hjónin góð! Jeg ætla að ganga út líka og láta rjúka af mjer; mjer er svo óglatt.

## 7. Atriði.

### Hjónin einsömul.

Maðurinn: Hvað segirðu nú um Þrúði, gæzkan mín? Gaztu ímyndað þjer, að henni brygði svona við upphefðina?

Konan: Jeg hefði varla trúað því, hefði jeg ekki sjeð það sjálf. Jeg get þó varla stilt mig að hlæja að þessu öllu saman. Þegar Þrúður var sjálf að gratúljera okkur, mitt í því hún var að setja út á sveitamálið. En hún Randalín þá! Henni gleymi jeg ekki á meðan jeg lifi, eða búningnum á henni Ingibjörgu. Hæ, hæ, hæ, hæ, hæ, hæ!

Maðurinn: Hlæðu ekki svona hátt; það kann einhver að heyra til þín.

Konan: Mig furðar mest á, hvað þú getur verið alvarlegur yfir öllu þessu. Jeg ætla að velta út af í hlátri.

Maðurinn: það er nú mestur galdurinn að geta stilt sig um að hlæja, og verður það ekki með öðru, enn að maður skoði þetta á alvarlegan hátt. Finnst þjer það nú ekki satt t. a. m., að enginn verður meiri gikkur, enn sá sem snögglega kemst undan mannafótum, og stígur allt í einu í einhvern æðri sess? því er og heldur ekkert hættulegra, enn þessi fljótu umskipti á kjörum manna. Sá sem er kominn af góðu og göfugu foreldri, og hefur fengið gott uppeldi, hann breytist trauðlega fyrir það, allra sízt svo að hann verði dramblátur, þó hann komizt til metorða. Reynslan hefur opt sýnt að þess konar menn eflast að því skapi í auðmýkt og litillæti, sem þeir vaxa að vegsemd og virðingu. En hinir, sem hefjast upp úr duptinu í einu vetfangi, þeir geta ekki ráðið sjer fyrir rembilæti. Eða mannstu ekki eptir sögunni af honum herra Jóhanni Sólskjöld?

Konan: Og nefndu ekki hann Jón Veiguson. En hvað ætli komi þá til þess? Mjer finnst að aumingjarnir ættu að vera þeim mun óstoltari og lítillátari, sem þeir mega muna eptir fyrri kjörum sínum.

Maðurinn: það er þó þvert á móti. En orsökina er hægt að sjá: þeir sem eru af góðum stigum gruna það ekki um neinn mann, að hann setji sig út til að óvirða þá; og því láta þeir sjer liggja það í ljettu rúmi, hverju viðmóti sem þeir mæta. Hinir þar á móti, sem aldrei hafa risið upp úr sorpinu, gruna hvern mann um gæzku. þeir álíta að hvert orð og atvik annara miði til þess að bríxla þeim um þeirra fyrri vesæld og aumingjaskap, hugsa sjer svo að halda uppi heiðri sínum með stórmennsku og drambi. þú mátt trúa því, gæzkan mín, að það er nokkuð í það varið að vera komin af góðu fólki. En þarna kemur nú þrúður aptur.

(þrúður kemur inn með gjörð um höfuðið, og lekur úr hárinu á henni).

þrúður: Æ, madama góð! það er þó hrálegt að þurfa að skipta orðum við slíkar skepnur; þær kunna enga mannasiði nema mólestera gott fólk. þú skalt fá fyrir ferðina, Ingibjörg, ef þú hleypir svona inn á mig hverri kotakerlingunni.

Ingibjörg: Hún var að vitja um verðið fyrir rjúpurokkinn, kerlingin; og held jeg hún hafi haft ögn í kollinum.

þrúður: þú bætir þá gráu ofan á svart, Ingibjörg, með höfuðverkinn í mjer. þau eru mjer svo ekel, þessi dónalegu orð!

Konan: Mjer þókti það meir enn slæmt yðar vegna, madama góð, að jeg skyldi sækja svona að yður. En þjer hafið gjört rjett að ausa vatni yfir höfuð yðar, til að kæla blóðið og sefa tilfinningarnar. það er eins og maður verði því viðkvæmari, sem maður kemst hærra í tignina.

Þrúður: Svei mjer þá alla daga, madama góð, ef mjer ekki finnst, að jeg hafi ekki nærri eins sterka heilsu og jeg hafði áður. Jeg er ekki óhrædd um það, að apúteks meðölin fari að rata hingað eptirleiðis.

Ingibörg: Allt eins er með mig. Jeg er farin að finna til stríðleika í fótunum og upp í læri, og hitakasta í höfðinu og aptur í hnakka.

Maðurinn: Það er nú bezt við förum hjeðan, gæzkan mín! Jeg held við sjeum búin að hvíla okkur. Kveddu þá madömuna.

Konan: Verið þjer sælar, madama góð! Jeg þakka yður fyrir alla góðsemdina, og óska yður nú góðrar heilsu og hamingju í yðar nýju og virðuglegu stöðu.

Maðurinn: Verið þjer sælar, madama góð! Heilsið frá mjer manninum yðar og segið honum, að jeg hlakki nú til að frjetta af framkvæmdum hans.

Þrúður: Adius, og verið þið blessuð bæði tvö! jeg þakka ykkur fyrir vísistátsíuna, og vona að maðurinn minn afreki margt yður og öðrum til gagns og gleði. Adius, lif vel.!

---

# Fimmti Þáttur.

---

## 1. Atriði.

**Bárður. Hrólfur. Snjólfur.** (Tveir stúdentar). (Síðan) **Einn maður.**

Bárður: Já, sportlur og titlar, það eru Bárðar ær og kýr! Þeir fara nú líka að strunsa hingað; og jeg skal bezt kenna þeim að bera respekt fyrir Bárði, og rjetta honum skilding í laumi. Hana, þar berja þeir að dyrum. Hvern viljið þið finna, góðu menn?

Hrólfur: Sæll vert þú, lagsi! Okkur langaði til að tala við þingmann Þiðrandasen.

Bárður: Hann er ekki kominn á fætur enn.

Hrólfur: Ekki kominn á fætur mitt á milli nóns og miðaptans?

Bárður: Jú, hann er að sönnu kominn á fætur, en hann er ekki heima.

Hrólfur: Við mættum þó manni hjerna í dyrunum, sem beinlínis kom frá honum. Svo þú ert að skröksva að okkur.

Bárður: Hann má þá til að vera heima; en hann er víst eitthvað lasinn. (Í hljóði): Hvaða ári mega þeir vera heimskir, dónarnir þeir arna, að skilja ekki, að þeir eiga að þjera mig!

Snjólfur: (Í hljóði) Jeg heyri það, fjelagi, að pilturinn vill láta hafa meira við sig. Við verðum að þjera hann, og skulum sanna, að þá stendur ekki á þingmanninum. (Hátt): Heyrið þjer, herra kontóristi! gjörið svo vel og skilið til herra alþingismannsins, að við óskum að ná fundi hans.

Bárður: Ónei, jeg gengst ekki upp við skjall, blessaðir verið þið!

Hrólfur: En viljið þjer þá ekki heldur þiggja af okkur ríxortið að tarna?

Bárður: Óekkí, jeg þigg engar gjafir.

Hrólfur: Hvað er þá til ráða, fjelagi? Við verðum að hverfa frá og koma heldur í annað sinn.

Bárður: (bendir þeim) Hvaða ógn liggur ykkur á, blessaðir! Jeg skal gjöra það fyrir ykkur að taka við ríkisdalnum; því jeg vil ekki koma því orði, hvorki á mig nje húsbónda minn, að við sjeum stórir upp á okkur.

Hrólfur: þarna hafið þjer þá, vinur, ríkisdal, ef þjer viljið þiggja; en gjörið nú svo vel og komið okkur á framfæri

Bárður: Guðvelkomið! Jeg skal gjöra allt fyrir ykkur, sem jeg get. Alþingismanninum er ekki heldur illt enn mjer, en hann getur þó ekki verið að standa frammi fyrir hverjum einum. það er öðru máli að gegna með ykkur, blessaðir mennirnir. Gjörið svo vel og bíðið augnablik meðan jeg læt vita, hverjir komnir sjeu. En þarna er þá barið aptur. Hvern ætlar þú að finna, karl?

Maðurinn: (fer með höndina niður í brókarvasa sinn) mig langaði til að mega tala við alþingismanninn.

Bárður (í hljóði): Sá veit hvað klukkan slær! Er hann ekki kominn þarna strax með höndina ofan í vasann? (Hátt): Jú, hann er heima alþingismaðurinn, jeg skal strax finna hann fyrir þig.

(Bárður rjettir fram lúkuna, en í staðinn fyrir peninga tekur hinn upp tóbakspung).

Maðurinn: Hann er þá tómur pungskrattinn, og jeg á ekkert í nefið.

Bárður: Hver var það aptur, sem þú vildir finna, karl?

Maðurinn: það var alþingismaðurinn.

Bárður: Hann er ekki heima, skaltu vita.

Maðurinn: þjer sögðuð þó rjett í þessu, að hann væri heima.

Bárður: Hafi jeg sagt það, þá hefur mjer orðið mismæli. (Maðurinn fer).

Bárður (í hljóði): Og ekki nema það, karltetur, að hugsa að alþingismaðurinn standi boðinnog búinn frammi fyrir þjer! (við hina): Jeg skal nú undir eins koma ykkur á framfæri.

Hrólfur: Hvað virðist þjer, fjelagi,

um snáðann? Þykir þjer hann ekki leikinn í lystinni? En við skulum nú ekki láta á neinu bera, við eigum að eins að byrja á því, að velgja þessum góða vefara undir uggum. Hinir piltarnir sjá um að hita honum til fulls. En þar kemur hann nú.

## 2. Atriði.

### Þiðrandasen. Stúdentarnir Bárður. (Síðan) Kerling.

Snjólfur: Vjer getum ekki nóglega vottað yður gleði vora yfir því, að annar eins maður og þjer hafið nú loks fengið sæti á alþingissalnum. Það hefur lengi verið þunnskipað þar af þeim mönnum, sem eins eru í öllum greinum útbúnir bæði að viti og vilja, eins og þjer eruð. En svo fagnaðarríkt sem það er fyrir sjálft meginlandið, svo er það þó enn miklu fagnaðarríkara fyrir Eyjarnar, sem borið hafa gæfu til þess að eiga mál sín í yðar höndum. Og eins og þjer eruð hinn fyrsti alþingismaður fyrir þá sýslu að tölunni til, eins vitum vjer, að þjer reynist hinn fyrsti og fremsti að öllum þingmannskostum.

Þiðrandasen: Það vil jeg ekki efa að verði.

Hrólfur: Þó er það vort hið mesta fagnaðarefni, að föðurlandið hefur, þar sem þjer eruð, ekki einungis hlotið þann talsmann, sem getur myrkranna á milli talað um landsins gagn og nauðsynjar með fullkomnasta tólf konunga viti.

Þiðrandasen: Já, guði sje lof fyrir það.

Hrólfur: Heldur hefur og orð fyrir að vera ljúfur og lítillátur við alla, svo að það er yðar yndi og eptirlæti, að heyra kærumál manna og hjálpa þeim til rjettar síns; því slíkt er ekki lítill kostur á þeim, sem kippa á í lag öllu sem aflaga fer í landinu. Og slíkur maður eruð þjer, Þiðrandasen!

Bárður: Þjer eigið að segja, herra Þiðrandasen, góði mann!

Hrólfur: Jeg bið auðmjúklega fyrirgefningar, jeg ætlaði að segja: þingmaður herra Þiðrandasen. Nú með því að vjer vitum, hve lærður og lesinn þjer eruð í eldri og nýrri lögum ekki einungis þessa hólma, heldur og þessarar heimsálfu, þá erum vjer hjer komnir, til að bera undir yður mál, sem risið hefur milli okkar, nábúanna. Við höfðum að vísu ásett oss að láta það reka til landslaga og rjettar, en sjáum þó á hinn bóginn í hinn mikla kostnað og mörgu umsvif, sem af því leiða. Og því höfum við nú snúið oss til yðar í þeim tilgangi, að taka yður fyrir gjörðarmann í málinu, og hvíla við álit yðar og úrskurð í því.

(Þiðrandasen sezt sjálfur niður, en lætur hina standa).

Snjólfur: Við erum báðir jarðeigandi, mágarnir; en á ein rennur milli engja okkar. Nú vildi svo til fyrir 3 árum, að þá fór áin að jeta undan bakkanum mín megin, og bar hvern grasrótarhnausinn á fætur öðrum yfir á lóð hans mágs míns. Á hann nú að halda hnausunum fyrir ekki neitt, eins og sinni eign? Stendur ekki í norsku lögum: Ingen maa berige sig paa Andens Bekostning? Samt tímir ekki mágur minn að sleppa af grasrótinni, og vill þannig maka krókinn mági sínum til tjóns, og það stríðir auðsjáanlega móti den naturlige Retfærdighed. Eða sýnist yður ekki það, herra Þiðrandasen?

Þiðrandasen: Sjálfsagt, það er ekkert vit í því, að ætla sjer að halda slíku; þjer hafið unnið málið, herra Studiosus!

Hrólfur: En Ørsted segir þó með berum orðum í Lovsamlingens tredje Bog 7. og 8. Paragraph om Elvenes Jordpaakastelse ....

Þiðrandasen: Hvað varðar mig um hvað Ørsted segir, Bardenfleth eða Rosenörn, sem afsegja að gegna kónginum um fríhöndlunina; jeg afsegi aptur á móti, að gegna nokkrum þeirra lögum fyrir þetta land.

Hrólfur: Því trúi jeg þó ekki, herra Þiðrandasen, að þjer afsegið þau lög, sem gilda í öllum konungsins löndum og ríkjum.

Þiðrandasen: Jeg meinti það ekki heldur; þjer hafið ekki skilið mig rjett; jeg ætlaði að segja sem svo .... (Hann fer að hósta). Jæja lofið mjer að heyra betur, hvað þjer ætluðuð að segja.

Hrólfur: Svona hljóða Ørsteds orð: Det Stykke Jord, som Elvens Ström driver hen til din Enggrund, tilhörer dig efter Folkeretten.

Þiðrandasen: Þjer berið of óðan á, herra Studiosus! talið ögn hægra, svo jeg heyri það.

(Hrólfur hefur upp sömu orðin aptur hægt og seint).

Þiðrandasen: Þjer eruð ekki rjett liðugur í dönskunni, og farnir mjög að styrðna í framburðinum. Talið hreina íslenzku, yður ferst það víst betur; það er ekki af því, að mjer þyki ekki ofur vænt um dönskuna; því jeg sit opt stundunum saman, og tala ekki annað enn tóma dönsku við skrifarann minn þarna. Segi jeg það ekki satt, Bárður?

Bárður: Það má nú segja; það gengur nokkuð á, þegar herrann fer að tala dönskuna; svei mjer ef mig ekki sundlar öldungis, þegar jeg hugsa um það. Þarna rennur hún upp úr honum, eins og árstraumur. Það gengur öldungis yfir mig, að nokkur maður skuli geta talað svo fljúgandi. En vaninn gefur lystina.

Hrólfur: Ørsteds orð, herra Þing-

maður, hljóða þannig: það sem áin ber frá annars engi upp á þitt, það er þín eign.

Þiðrandasen: Líklega hefur Ørsted satt að mæla, því lærður er hann, maðurinn; jeg virði hann líka of mikið til þess, að jeg skuli hrinda áliti hans.

Snjólfur: En eitt skal jeg segja yður, herra minn, hann mágur minn les lögin, eins og rækallinn ritninguna. Hann gleymir þessu, sem kemur strax á eptir: Men ved Oversvömmelse synes ikkun det at kunne tilhöre en Anden, som tilföjes efterhaanden i saadanne Smaastykker, at man slet ikke kan mærke, hvor meget der tilföjes ad Gangen.

Þiðrandasen: Jeg verð að biðja ykkur að hafa mig afsakaðan, vinir mínir. Jeg á nú að mæta í bæjarstjórninni; og klukkan sló hálf fimm. Bárður, berðu þig að jafna málið á milli þeirra frammi!

Hrólfur: Æ, gjörið svo vel, herra bæjarfulltrúi, og segið okkur álit yðar í fám orðum.

Þiðrandasen: Þið hafið báðir rjett, blessaðir! en hvor upp á sinn máta.

Snjólfur: Hvernig getum við báðir haft rjett? Jeg held þó, þegar jeg hef rjett, þá hefur mágur minn rangt. Ørsteds orð eru líka auðsjáanlega með mjer.

Þiðrandasen: Jeg má ekki vera að þessu lengur, jeg á að mæta i bæjarþingsstofunni.

Hrólfur (tekur í bæjarfulltrúann): Jeg er búinn að leiða rök að því, að Ørsteds orð eru með mjer.

Þiðrandasen: Já, það er það góða, Ørsted er ykkur báðum meðmæltur. En því í fjandanum sættist þið þá ekki á málið? Þið þekkið ekki Ørsted eins vel og jeg; þegar hann ber svona kápuna á báðum öxlum, þá þýðir það sama sem hann segði: snáfið burt, lúsablesarnir ykkar, og sættist á málið!

Snjólfur: Herra bæjarfulltrúi! til þess maður skilji meiningu löggjafans rjett, þá verður maður að bera eina greinina saman við aðra; stendur þá ekki í næstu grein: Dersom Elvens Ström fra din Enggrund. . . . .

Þiðrandasen: Æ, sleppið mjer, riffrildisseggirnir ykkar! Jeg er búinn að segja ykkur það, að jeg á að mæta í bæjarstjórninni.

Hrólfur: Verið ekki svona bráðlátur, herra bæjarfulltrúi! Við skulum nú heyra, hvað Grágás segir.

Þiðrandasen: Jeg gef bæði ykkur og ykkar gráu gæsum dauðann og djöfulinn. Hvað þarf jeg að skipta mjer af grágjæs; það er rjett fyrir ykkur að rífast út af geitarskinni og gæsarbelg. Bárður! rektu þá strax út. (þeir fara út).

(Bárður er að jagast frammi, og kemur loks inn á fjórum fótum, og kvennmaður á eptir honum, sem líklega er karlmaður í kvennfötum).

Kvennmaðurinn (tekur í brjóstið á bæjarfulltrúanum og kallar): það eru þó yfirvöld, fjandinn sá arni, sem gefa út þau lög, að maðurinn megi hafa tvær konur? Hugsið þjer það, að hefnd guðs hitti yður ekki?

þiðrandasen: Ertu vitlaus, kvennmaður, hverjum skollanum hefur komið slíkt í hug?

Kvennmaðurinn; Jeg veit nú nokkuð líka. En ekki skal jeg hjeðan fara, fyr enn jeg geng af þjer dauðum.

þiðrandasen: Æ, komið og hjálpið mjer, piltar, Bárður! Svanur! (Svanur kemur inn og dregur kerlinguna út. Bárður hafði falið sig, en hjálpar þó loksins hinum til).

## 3. Atriði.

### Þiðrandasen. Bárður.
### (Síðan) Tveir bæjarmenn og Stiptamtmannsþjóninn.

þiðrandasen: Bárður! mikla bölvun skaltu fá, ef þú hleypir optar inn á mig kerlingum, eða lagasnápum; því þau gjöra út af við mig, hvort á sinn hátt. Ef aðrir menn koma, sem vilja finna mig, þá skaltu segja þeim að þeir verði að varast að tala dönsku, því jeg hafi tekið það í mig að tala hana aldrei.

Bárður: Jeg hef tekið það í mig líka.

þiðrandasen: þú getur sagt þeim, að jeg sje allur í Enskunni. það er barið að dyrum.

Bárður: (fer fram og kemur aptur inn með mikinn skjalabagga). Hjerna er ógn af skjölum úr Vestmanneyjum; það eru bænarskrár, sem eyjamenn biðja alþingismanninn að segja um álit sitt og leggja fyrir þingið.

(Alþingismaðurinn sezt niður við borð, og fer að blaða í skjölunum).

þiðrandasen: það er ekki eins hægt að vera þingmaður, og jeg hugsaði, Bárður! þeir hafa sent mjer hjer málefni, sem fjandinn sjálfur botnar ekki í. (Hann fer að skrifa eitthvað, stendur upp og þurkar af sjer svitann, sezt niður aptur og dregur yfir það, sem komið var). Bárður!

Bárður: Herra alþingismaður!

þiðrandasen: Hvaða háreysti er í þjer? Geturðu ekki staðið kyrr?

Bárður: Jeg hreifi mig ekki úr sporunum, herra alþingismaður!

þiðrandasen (stendur upp aptur, þurkar af sjer svitann, eins og áður, fer úr treyjunni, fleygir henni á borðið, sezt niður að skrifa snöggklæddur, kallar) Bárður!

Bárður: Herra alþingismaður!

Þiðrandasen: Jeg skal berja á þjer, ef þú stendur ekki kyrr. Þú ert nú tvisvarsinnum búinn að fipa mig í skriptunum.

Bárður: Svei mjer, ef jeg gjörði annað enn toga upp um mig reiðbrækurnar, og svo var jeg að gá að, hvað þær væru mjer mikið of síðar.

Þiðrandasen (stendur upp aptur, ber í hvirfilinn á sjer með höndinni, til að örfa gáfurnar): Bárður!

Bárður: Herra alþingismaður!

Þiðrandasen: Farðu út og segðu krökkunum, sem eru að ólmast hjerna fyrir utan gluggana, að hafa ekki þessi ólæti, því það fipar svo fyrir mjer, að jeg get ekki hugsað neitt um landsins gagn og nauðsynjar.

Bárður (kallar við dyrnar): Heyrið þið, krakkar, stelpur og strákar, kotungar og kjaptaskúmar, skammist þið ykkar ekki, að hafa þessi ólæti rjett undir gluggum alþingismannsins, svo honum verður ekkert að verki fyrir ólátunum í ykkur!

Þiðrandasen: Bárður!

Bárður: herra alþingismaður!

Þiðrandasen: Þegiðu á þjer túlanum, svínið þitt!

Bárður: Það er ekki heldur til neins, þó jeg þaggi optar niður í þeim, því eitt kemur öðru verra; hjerna er komið þvílíkt hundastóð úti, og svo heyrist skröltið í móvagninum upp í holtinu.

Þiðrandasen: Þegiðu þjer saman stattu kyr og haltu túla! (Sezt niður og dregur yfir það, sem hann var búinn að skrifa, skrifar aptur; stendur upp, stappar í gólfið af reiði, kallar): Bárður!

Bárður: Herra alþingismaður!

Þiðrandasen: Jeg vildi það væri komið fjandans til, þetta alþingismanns embætti. Viltu vera þingmaður í minn stað?

Bárður: Verði jeg þá verri maður! (Í hljóði): Nei, það má rækallinn sjálfur sækjast eptir því.

Þiðrandasen (ætlar að setjast niður til að skrifa, en hittir ekki á stólinn og dettur, kallar): Bárður!

Bárður: Herra alþingismaður!

Þiðrandasen: Jeg ligg á gólfinu.

Bárður: Og jeg held jeg sjái það.

Þiðrandasen: Kondu þá og reistu mig á fætur.

Bárður: Herra þingmaðurinn hefur bannað mjer að víkja úr sporunum.

Þiðrandasen: Þetta er ljóti strákurinn! (stendur á fætur). Er ekki barið þarna aptur?

Bárður: Ojújú — Hvern ætlið þjer að finna.

Tómthúsmaður: Jeg þarf að kæra mál fyrir bæjarfulltrúanum.

Bárður: Hjerna er kominn maður með kærumál til yðar.

Þiðrandasen: Jeg get þó ekki rúmað í höfðinu nema einn hlut í einu; spurðu hann um hvað það sje.

Tómthúsmaður: Það er of langt að segja frá því. Jeg verð að tala við bæjarfulltrúann sjálfan; það stendur þó ekki mjög lengi á því; ákæran er ekki nema í 20 greinum.

Bárður: Hann segist þurfa að tala við bæjarfulltrúann sjálfan; því það sjeu ekki nema 20 greinir í ákærunni.

Þiðrandasen: Guð hjálpi mjer vesaling! Jeg veit ekki mitt rjúkanda ráð; láttu hann samt koma inn!

Tómthúsmaður: Heyrið, herra bæjarfulltrúi! mjer og bænum er búinn mikill órjettur, eins og þjer skuluð sjálfur sjá, þegar þjer heyrið það.

Þiðrandasen: Þjer verðið að leggja það fram skriflega.

Tómthúsmaður: Jeg hef það hjerna á 4 örkum.

Þiðrandasen: Það er barið enn, Bárður!

Bárður: Hvern ætlið þjer að finna?

Jagtarmaður: Jeg hef mál að kæra fyrir bæjarfulltrúanum á móti tómthúsmanni einum.

Þiðrandasen: Hver var það, Bárður?

Bárður: Það er mótpartur mannsins þess arna.

Þiðrandasen: Taktu á móti málsvörn hans; en blessaðir verið þið, bíðið hjerna fyrir utan stundarkorn. Bárður!

Bárður: Hvað viljið þjer herra?

Þiðrandasen: Geturðu ekki komið mjer dálítið á lagið? Jeg veit ekki, á hverju er bezt að byrja. Lestu fyrir mig málavexti tómthúsmannsins.

(Bárður les upp, eins og hjer stendur:) Velburðugi og vellærði herra bæjarfulltrúi!

Eins og frumburður fátæklinganna, en þó fyrstur af öllum föðurlandsvinum framkem jeg hjer undirskrifaður, til að votta yður gratulatión mína yfir því, að þjer svo ágætur og vellærður maður eruð þó nú loksins kominn í upphefð, um leið og jeg þá líka auðmjúklegast kæri fyrir yður einhverja hina mestu og hættulegustu misbrúkun, sem hin spillta öld, og hin enn spilltari kynslóð aldarinnar hefur innleitt í þennan bæ; og vona jeg, að hyggindi yðar og speki ráði bót á slíku. Svo er mál með vexti, að danskir menn hafa lengi verið svo djarfir, að selja og bjóða opinberlega í hespum og hniklum kertarök, sem þeir láta spinna úr viðarullu af einhverju trje; og nú eru þar á ofan íslenzkir menn teknir upp á hinni sömu ósvífni, að bjóða viðarullu þessa hverjum, sem hafa vill, í kveiki í lampa og kolur. Slíkan yfir-

gang getum við ekki þolað fátælingarnir, sem meðfram lifum á fífutíningi og fífusölu; og er ekki annað sýnna, enn að öll landsins fífufjelög líði þannig undir lok og velti út af í sult og seyru. Nú er það ósk mín og auðmjúk bæn, herra bæjarfulltrúi, að þjer vilduð gjöra svo vel og taka til nákvæmrar íhugunar þessar 24 ástæður og röksemdir, sem vjer fátækir bændur og fjölskyldumenn þykjumst hafa, til þess að vera einir um söluna á þeim landsins ávexti, sem guð og náttúran hefur svo ríkuglega útbúið þetta land með, til að eyða með myrkri, en kveikja við ljós; því í fyrsta máta þá hefur það í frá öndverðu verið almennur siður og landsvenja, ekki einungis í þessum bæ, heldur hvervetna á byggðu bóli um allt þetta land, að hafa fífuna í kveiki; og má með mörgum tilvitnunum í sögu landsins staðfesta það, en þó sjer í lagi í fyrsta máta með rímunni af Höllu gömlu, sem þannig byrjar:

Ljósið kemur langt og mjótt,
logar á fífustöngum.
Halla kerling fetar fljótt
framan eptir göngum.

Þiðrandasen: Hlauptu yfir rímuna, Bárður!

Bárður: Og því næst með þingsvitnum, því móðir mín, sem hefur 66 um sextugt, man eptir að Alfífa móðir hennar sagði . . . . .

Þiðrandasen: Hlauptu líka yfir það, sem hún hefur sagt.

Bárður: Og í þriðja máta, þá er það ofmikil eyðslusemi og prjál að hafa eins dýra ull, og viðarullin er, í kveiki í lampa og kolur; og í rauninni mesti óþarfi, þar eð landið er svo ríkuglega útbúið með laugarblor, dýjamosa og ljereptsríur, sem allt má hafa í kveiki.

Þiðrandasen: Nóg er komið, Bárður! Jeg sje, að maðurinn hefur satt að mæla.

Bárður: Ja, jeg hef nú heyrt, að dómarinn ætti æfinlega að heyra báða málsparta, áður enn hann dæmir? Á því ekki líka að lesa upp svar mótpartsins?

Þiðrandasen: Það má vera. (Hann fær Bárði skjal mótpartsins)

(Bárður les):

Hæstvirti herra, Háttupplýsti föðurlandsvinur!

Eins hátt og vitsmunir yðar stíga upp yfir vit annara manna, eins hátt gnæfir gleði mín upp yfir gleði annara, er jeg hef heyrt, að þjer sjeuð orðinn bæjarfulltrúi; en þess vegna er jeg hjer kominn, að Fífu-Gvendur vill ekki lofa mjer að selja nokkrar viðarullarhespur, sem jeg hef fengið upp í kaup mitt á jagtinni. Jeg veit hvað þeir vilja, þessir fífumangarar; þeir vilja ekki

að neinir megi selja efni í kveiki, nema sjálfir þeir, sem fífuna tína, og að viðarullin sje ekki höfð í annað enn kertarök; en þeir hafa ekki vit á, hvað bezt hagar. Það er mesta heimska að hafa þessa fífukveiki, þeir fuðra upp eins og púður, og eru miklu lýsisfrekari enn viðarullarkveikir, sem loga bæði jafnt og seint og þurfa helmingi minni ljósmat; og þannig eyðist óþarflega mikið af þessari útgengilegu verzlunarvöru, eins og lýsið er, sem nú selzt, eins og þjer vitið, sjálfrunnið þorskalýsi fyrir 40 rbdl. tunnan.

Þiðrandasen: Hættu, Bárður! þessi hefur rjett líka.

Bárður: Það veit jeg, að ekki geta þeir báðir haft rjett.

Þiðrandasen: Hvor þeirra hefur þá rjett?

Bárður: Það má guð vita og bæjarfulltrúinn.

Þiðrandasen: Stendur upp og gengur um gólf. Bárður, geturðu ekki sagt mjer, aulinn þinn, hvor þeirra hefur rjett? Til hvers á jeg að halda slíkan Aulabárð upp á kost og kaup? (Nú heyrist háreysti frammi og hann spyr: hvað gengur á í göngunum?)

Bárður: Þeir eru komnir í hár saman, báðir málspartarnir.

Þiðrandasen: Farðu fram og spurðu þá hvort þeir viti ekki, í hvers húsum þeir sjeu.

Bárður: Þeir vita það, herra, en það er jafngott þó þeir berji hvor á öðrum, þeir sættast því fyr. Sjer er hver gangurinn! Jeg held þeir brjótist inn á okkur; sko, hvernig þeir ólmast á hurðinni.

(Þiðrandasen skríður undir borðið og felur sig).

Bárður: Hver er að berja?

Stiptamtmannsþjóninn: Stiptamtmaðurinn stendur hjerna úti, og óskar að fá að finna bæjarfulltrúann, því hann þarf að tala við hann um áríðandi málefni.

Bárður: Hver skrambinn varð af bæjarfulltrúanum? Ætli árinn hafi sókt hann? Herra bæjarfulltrúi!

Þiðrandasen (undir borðinu í hálfum hljóðum): Hvor var það, Bárður?

Bárður: Stiptamtmaðurinn vill fá að finna yður.

Þiðrandasen: Beiddu hann að bregða sjer til mín aptur innan stundar, því segðu honum, að hjá mjer sjeu tveir bæjarmenn, sem jeg sje að afgreiða. Bárður! beiddu líka bæjarmennina að fara burt til morguns. Æ, guð hjálpi mjer vesaling! jeg er orðinn svo ringlaður í höfðinu, að jeg veit ekki sjálfur hvað jeg tala eða gjöri. Geturðu ekki komið neinu lagi á fyrir mig, Bárður?

Bárður: Jeg sje nú ekki önnur betri úrræði fyrir yður, enn að þjer hengið yður.

Þiðrandasen: Farðu upp á lopt og sæktu fyrir mig þjóðmálaskjóðuna mína, hún er framan undir höfðalaginu mínu; hún getur líklega frætt mig á því, hvernig jeg á að fara að tala við stiptamtmanninn í áríðandi málefni. (Meðan Bárður er uppi, stendur Þiðrandasen á fætur og rífur í sundur í einhverri leiðslu klöguskjal Fífu-Gvendar).

Bárður (kemur aptur og heldur á skjóðu með vaðmálum í): Hjerna er vaðmálsskjóðan yðar, herra bæjarfulltrúi! En hvað eruð þjer að tæta í sundur? er það ekki klöguskjalið hans Fífu-Gvendar? Ekki sýnist mjer betur?

Þiðrandasen: Jeg nefndi, nautið þitt! Þjóðmálaskjóðuna mína, bók í fariroði, með rauðum titli á kjölnum, úr kálfsblóði.

Bárður: Mjer hefur þá misheyrst, vaðmálsskjóða fyrir þjóðmálaskjóða.

Þiðrandasen: Mjer á ekki úr að raka; (hann tekur skjóðuna og grýtir á gólfið, gengur fram og aptur og hálfhrasar um hana). Já, skjalið hef jeg rifið í sundur í hugsunarleysi, en það er bezt að jeg hengi mig, Bárður, eins og þú segir. (Það er barið).

Bárður: Ekki spyr jeg að því, barið er enn (fer fram; kemur inn kjökrandi) æ, herra bæjarfulltrúi, hjálpið mjer, herra bæjarfulltrúi!

Þiðrandasen: Hvað gengur á?

Barður: Þeir eru komnir hjerna allir af fiskiduggunni með fjelaga sinum og kalla: ef bæjarfulltrúinn dæmir Fífu-Gvendi í vil, skulum vjer brjóta gluggana inn á hann. Einn þeirra sendi stein í bakið á mjer, svo jeg kenni svo mikið til, æ, æ, æ!

(Bæjarfulltrúinn skríður undir borðið aptur).

Þiðrandasen: Bárður! kallaðu á bæjarfulltrúa madömuna, og segðu henni að halda þeim í skefjum; þeir láta þó líklega að orðum kvennmanns.

Bárður: Eða hitt þó heldur; þjer skuluð sanna hvað sjómenn gefa um kvennmann; komi hún í leikinn, hafa þeir til að glettast við hana, og verður þá hið síðara verra hinu fyrra.

Þiðrandasen: Vertu ekki að því arna, Bárður! hún er gömul, konan.

Bárður: Þeir taka allt með þökkum, skipsmennirnir þeir arna. Ekki þyrði jeg að eiga það undir með konuna mína. Barið er enn; á jeg að ljúka upp?

Þiðrandasen; Jeg er svo hræddur um, að það sjeu skipsmennirnir. Jeg vilda jeg væri kominn undir græna torfu. Farðu til dyranna samt, að vita hver það er.

Bárður: Svei mjer, ef þeir koma ekki

þarna inn á okkur; það eru þá tveir menn úr bæjarstjórninni.

## 4. Atriði.

### Pjetur. Páll. Þrándur. Bárður.

Pjetur: Er bæjarfulltrúinn ekki heima?

Bárður: Hann situr sjálfsagt undir borðinu.

Páll: Hvað er þetta? Situr bæjarfulltrúinn sjálfur undir borðinu?

Þiðrandasen: Jeg hef aldrei beðizt eptir því, blessaðir verið þið, að verða bæjarfulltrúi; til hvers hafið þið stofnað mjer í þann vanda?

Pjetur: Þjer hafið þó tekið við kosningunni; en komið fram undan borðinu, herra bæjarfulltrúi! Við erum komnir til að tjá yður þá miklu yfirsjón, sem yður hefur orðið á við stiptamtmanninn, að láta hann fara erindisleysu til yðar, því öll bæjarstjórnin hefur minnkun af því. Við hugsuðum að herra bæjarfulltrúinn kynni betur mannasiði og serimóníur, enn svo.

Þiðrandasen: Þið getið vikið mjer frá, ef þið viljið, og jeg verð því feginn, því þá losast jeg úr þessum vanda; jeg er svo ekki maður til að standa í honum, og það er þá líka fullkomin málsbót fyrir stiptamtmanninn.

Páll: Nei, það er fjærri, herra bæjarfulltrúi! að vjer setjum yður af; en þjer verðið strax að koma með okkur niður í bæjarþingsstofuna, til að tala við fógetann um það, hvernig bæta eigi fyrir þessa smán.

Þiðrandasen: Jeg fer ekki fet niður í bæjarþingsstofuna, þó jeg sje dreginn á hárinu; jeg vil ekki vera bæjarfulltrúi; jeg hef ekki beðizt eptir að vera það; jeg vil heldur að þið skerið mig á háls; jeg er ærlegur vefari, guði sje lof fyrir það! og eins og vefari ætla jeg líka að deya.

Páll: Ætlið þjer þá að láta smánina bitna á allri bæjarstjórninni? Heyrðu, vinur, tók hann ekki á móti bæjarfulltrúa embættinu?

Pjetur: Það held jeg, því það er búið að bóka það.

Páll: Við skulum þá sjá honum sanninn; öll bæjarstjórnin lætur þó ekki fara svo með sig.

## 5. Atriði.

### Þrándur. Bárður.

Þrándur: Bárður!

Bárður: Herra bæjarfulltrúi!

Þrándur: Hvað heldurðu helzt, að hinir bæjarfulltrúarnir gjöri við mig?

Bárður: Jeg veit það ekki, herra bæjarfulltrúi! En það sá jeg, að þeim var mjög gramt í geði; mjer þóktu þeir ann-

ars nógu tannhvassir inn í yðar eigin húsum; hefði jeg verið í yðar sporum, skyldi jeg svei mjer hafa sagt þeim: haldið ykkur saman, ófjetin ykkar! Eða eruð þið þeir aulabárðar, að vita ekki í hvers manns húsum þið eruð?

Þrándur: Betur þú værir orðinn bæjarfulltrúi, Bárður! Guð gæfi það; já, jeg tala nú minna um slíkt.

Bárður: Mig langar til að biðja herra bæjarfulltrúann einnar bónar, ef hann hefur tíma til að gegna mjer; og hún er sú, að jeg megi kalla mig Brotevesen eptirleiðis.

Þrándur: Ekki kanntu að skammast þín, strákur! Þykir þjer nú tími til að tala um slíkan hjegóma, þegar þú sjerð, að alls konar basl og óhamingja steðjar að mjer á allar hliðar?

Bárður: Jeg mælist ekki til þessa af neinu drambi, heldur til þess að hin hjúin hafi ögn meira við mig, allra helzt hún Imba, sem . . . .

Þrándur; Ef þú ekki heldur þjer saman, Bárður! þá skal jeg stíga á hálsinn á þjer.

Bárður: Herra bæjarfulltrúi!

Þrándur: Geturðu ekki komið neinu lagi á fyrir mig, Aulabárðurinn þinn? Reyndu nú til að greiða úr málunum fyrir mig, eða jeg skal berja á skrokknum á þjer!

Bárður: Það gengur yfir mig, að herrann sjálfur skuli biðja mig um það, svo lærður maður og lesinn, sem einungis vegna speki sinnar hefur verið valinn til þessa embættis.

Þrándur: Ertu að hæða mig ofan í kaupið? (Tekur stólinn og ætlar að berja hann. Bárður hleypur á dyr).

## 6. Atriði.

### Herra Þiðrandasen (einsamall.)

(Sezt niður og styður hönd undir kinn og horfir í gaupnir sjer. Stekkur upp í fáti og spyr): Var ekki barið? (Læðist að dyrunum, en sjer engan, sezt niður aptur í mjög þungu skapi, fer að gráta og þurka úr augunum á sjer með skjölunum, stekkur upp aptur, eins og óður maður, og kallar):

Fullkomnasti baggi af bænarskrám austan úr Vestmanneyjum! Fífu-Gvendur og formálinn hans í 20 kapítulum! Mótpartur Gvendar, tómir sjómennn, heil skipssöfn óð og uppvæg! Stiptamtmaðurinn apturreka! Ákúrur úr bæjarstjórninni! Jeg á von á góflunni! Ætli hjer sje enginn snærisspotti nærri? Það var þó bundið fyrir vaðmálsskjóðuna með einhverju, minnir mig. (Leysir frá skjóðunni og býr til snöruna). Því hefur verið spáð fyrir mjer, að fyrir lærdóm minn

og lestur um landsins gagn og nauðsynjar, skyldi jeg upphefjast. Það rætist þá laglega, ef snærið ekki svíkur mig. Komi svo bæjarstjórnin bölvandi, jeg gjöri ekki annað, enn blæs framan í hana apturganginn. Eins vildi jeg samt óska, og það er það, að sá, sem ritað hefur Þjóðmálaskjóðuna, hjengi í snöru við hliðina á mjer, með 16 alþingis- og bæjarþingsstofum, og 17 Þings- og Þjóðfundartíðindum. (Tekur dagblöð af borðinu, rífur þau í sundur). Og þið, bannsett blóð og bjevaðir póstar, skuluð ekki optar villa sjónir fyrir ærlegum vefara! Svona nú, þetta var þó dálítil huggun fyrir mig, áður enn jeg skil við! En nú verð jeg að leita mjer að snaga, til að hanga á. Það verður þó saga til næsta bæjar, þegar þetta berst út: aldrei var neinn bæjarfulltrúi árvakrari, enn herra Þiðrandasen, því honum kom ekki dúr á auga alla hans embættistíð.

## 7. Atriði.

### Brandur. Þrándur.

Brandur: Sei! Sei! Hvern skrambann ætlið þjer að gjöra?

Þrándur: Jeg ætla nú ekki að gjöra mikið; því jeg ætla að hengja mig, svo jeg þurfi ekki neitt. að gjöra Ef þjer viljið verða með, skal mjer þykja vænt um.

Brandur: Og það vantar mikið á að jeg vilji það; en hvað knýr yður til þessa óyndisúrræðis?

Þrándur: Það stendur nú á sama, Brandur, hvað sem þjer segið um það; hengdur verð jeg; hengi jeg mig ekki í dag, verð jeg hengdur á morgun; en þess vil jeg biðja yður, áður enn jeg skil við, að skila kærri kveðju minni til bæjarfulltrúa madömunnar og jómfrúarinnar, dóttur hans, og segja þeim að setja mjer þetta grafletur:

Stattu við ferðamaður!
Hjer hengdi sig bæjarfulltrúi,
herra Þiðrandasen,
sem aldrei kom dúr á auga
í öllu hans embætti.
Far þú, og gjör slíkt hið sama!

Þjer vitið það líklega ekki, Brandur minn! að jeg er orðinn bæjarfulltrúi og alþingismaður, og hef þar fengið þau embætti, sem jeg veit hvorki upp eða niður í, svo jeg er með öllu ófær til þeirra; því jeg hef komizt að raun um það af ýmsum vandamálum, sem fyrir mig hafa komið, að það er sitt hvað að vera yfirvald sjálfur, eða að setja út á yfirvald sitt.

Brandur: Hæ hæ hæ hæ hæ hæ!

Þrándur: Hæðið mig ekki, Brandur! það er ekki gustuk fyrir yður.

Brandur: Hæ, hæ, hæ! Nú skil

jeg málið. Jeg kom neðan af Skála, og þar heyrði jeg, að sumir ætluðu að springa af hlátri yfir því, hversu leikið hefði verið á þránd þiðrandason; því það höfðu tekið sig saman nokkrir unglingar, til að telja honum trú um, að hann væri orðinn bæjarfulltrúi og alþingismaður, til að sjá, hvernig honum færizt það. Mjer fjell það óvenju illa, þegar jeg heyrði það; flýtti mjer þess vegna hingað til að gjöra yður varan við.

þrándur: Ja, nú gengur fyrst yfir mig! Er jeg þá ekki bæjarfulltrúi?

Brandur: Og langt í frá. þetta er ekkert annað enn grikkur, sem þeir hafa gjört yður fyrir vitleysuna í yður, að vera að þvætta fram og aptur um hluti, sem eru svo langt fyrir ofan yður, og þjer hafið ekkert vit á.

þrándur: Æ, er þá ekki heldur satt um stiptamtmanninn?

Brandur: Ja nei nei.

þrándur: Ekki heldur um Fífu-Gvend og málið hans?

Brandur: það er allt saman hauga-lýgi.

þrándur: Og þá líka um jagtar-mennina alla?

Brandur: Já, það er víst.

þrándur: Fjandinn sjálfur hengi sig þá í minn stað! þrúður, Sæunn, Imba, Bárður, komið hjer öll saman inn til mín!

# 8. Atriði.

## þrándur. Brandur. þrúður. Sæunn. Ingibjörg. Bárður.

þrándur: Taktu til vinnu þinnar aptur, gæzkan mín! Við erum búin að vera í bæjar-og landstjórninni þeirri arna

þrúður: Búin að vera? jet jeg eptir þjer.

þrándur: Ójá, búið er það; það hafa tekið sig saman nokkrir strákar, til að hæða okkur.

þrúður: Hæða okkur! þeir skulu fá fyrir ferðina, sem hafa hætt okkur, og þú líka! (Hún rekur honum utan undir. — þrándur ber hana aptur)

þrúður: Æ, gæzkan mín, berðu mig ekki svona mikið! Æ, hættu, hjartað mitt gott!

þrándur: Jeg ætla að láta þig vita, kona mín! að það er úr mjer tólf-kóngavitið, og að jeg hætti að telja til 20, þegar þú rekur mjer utan undir. Jeg ætla að taka stakkaskiptum, brenna í eldi bækur mínar, og skipta mjer ekki af öðru, enn atvinnu minni. Jeg segi ykkur það líka, heyrið þið það! að, ef jeg sje nokkurt ykkar lesa í þessum blöðum og bókum, sem ganga um landið, eins og grenjandi ljón, eða komið með það á mitt heimili, þá skal hann eiga mig á fæti.

Bárður: Þjer þurfið ekki að kvíða því af mjer, herra bæjarfulltrúi! því jeg er ekki svo mikið fyrir þær, bækurnar þær arna.

Þrándur: Slepptu þessu nafni, Bárður, og kallaðu mig blátt áfram húsbónda þinn, eins og áður; því jeg er vefari, og ætla að deyja sem vefari. Heyrið, msr. Brandur! yður hefur verið meinlaust við hana dóttur mína. Tólfkóngavitið í mjer hefur staðið í móti ráðahag ykkar. Nú gefum við bæði foreldrar hennar samþykki okkar til hans, svo að ekkert er honum til fyrirstöðu, ef þjer viljið stúlkuna.

Brandur: Já, jeg hef lengi haft hug á henni, og bið ykkur að gefa mjer hana fyrir konu.

Þrándur: Viltu gefa honum stúlkuna, Þrúður?

Bárður: Jeg held það sje óþarfi að spyrja að því; hún hefur lengi viljað hann Brand, bæjarfulltrúa madáman.

Þrúður: Þegi þú, Aulabárðurinn þinn! Jeg get svarað fyrir mig sjálf. Ójá, gæzkan mín! jeg hef fyrir þrem árum samþykkt ráðahaginn,

Þrándur: Jeg þarf ekki að spyrja þig, Sæunn! Jeg veit þú elskar hann eins og lífið í brjósti þínu; segi jeg það ekki satt?

Bárður: Gegnið þjer, jómfrú, góð!

Þrándur: Ef jeg vissi, að þú hefðir þessa titla af háði, þá skyldir þú ekki gjöra það fyrir ekki neitt.

Bárður: Og svei mjer, ef jeg gjöri það af háði, húsbóndi góður! En maður er ekki svo fljótur að komast í samt lag aptur; vaninn er ríkur.

Þrándur: Gefið þá hvort öðru hönd ykkar, börnin góð! Svona nú! Nú líkar mjer; á morgun skal jeg halda brúðkaup ykkar. Bárður!

Bárður: Herra bæjarfulltrúi! Æ, guð fyrirgefi mjer; húsbóndi góður! ætlaði jeg að segja.

Þrándur: Berðu fram í hlóðir allar mínar bækur með þessu ramvitlausa tólfkóngaviti um landsins gagn og nauðsynjar, og brendu þær upp að björtu báli; því jeg get ekki horft á það fyrir augunum, sem hefur vilt svo herfilega huga minn.

Embættismönnunum einatt vor munnur
álasar, sjálfir þó getum ei neitt.
Einn þó sje ströndum af uppdrætti kunnur,
annað er: skipi um sæ geta beitt.

Af **Tólfkóngavitsins** lestri þó lýðir
læri að tala um eitt og sjerhvað;
landinu stýra með stjórnsemi, er hlýðir,
starfi sá útheimtir meira, enn það.
Af því, sem mjer í dag mætt hefur, nægra
meðvitna getur hver leitað sjer þess,
að yfirvöldunum hallmæl' er hægra,
heldur enn geta fyllt þeirra sess.
Í embættisstöðu ef vefarinn vildi
væri sjer rúm gefið, líkast er því,
að stiptamtmaðurinn sjálfur þá skyldi
setjast með ánægju vefstólinn í.

## Leiðrjettingar:

Á 12. bls. í 11. línu síðara dálks er „eg“ í staðinn fyrir og.

Á 23. bls. í 10. og 14. línu síðara dálks er „Þrándur“ í staðinn fyrir Bárður.

Aðrar smávillur í riti þessu vonum vjer að landar vorir lesi í málið, af virðingu fyrir tólfkóngaviti vefarans; og vjer lofum þeim því, að, ef þeim geðjast að þessu leikriti, þá skulu þeir fá annað, sem heitir:

# Atli með axarsköptin.

Leikrit það er líka eptir Holberg, en lagað og sniðið eptir háttum vorum og hugsun, líkt og Vefarinn.

